því, sem kynni að hafa komið sér of illa eður verið ekki hættulaust, og hefir mig aldrei iðrað þess; enda var því jafnan varpað fram í því skyni, að þið skylduð strika þær út aftur, ef ykkur svo litist. Ekki er eg svo kvíðandi fyrir, að sá höggstaðurinn verði mér að bana, sem óvinirnir fá af orðfæri mínu, ef annað væri þeim mun skárra, því ef illa ætti að fara, »hræðist eg ekki þá, sem líkamann deyða, en geta þó ekki líflátið sálina«. Eg vildi, að Íslendingar lærðu að **hugsa**, þá mun þeim skjótt lærast að **tala**«.

Engu að síður hefir hann hugsað mikið um meðferð móðurmálsins, og í bréfum til Konráðs rökræðir hann af miklum áhuga stafsetningarnýmæli hans, og eru athugasemdir hans um þau mjög skynsamlegar og ljóst hugsaðar; honum þykir Konráð þar of einhliða, gera of mikið veður af stafsetningunni einni saman, enda séu aðrar hliðar málfræðinnar alþýðlegra umtalsefni:

»Skrifaðu annaðhvort ekkert um málfræði eður láttu okkur fá mátulega langa þætti, annaðhvort um íslenzka orðsmíði eður um réttilega íslenzka orðskipun, og gefðu okkur um leið dálítið sýnishorn af dönsku orðaskipuninni, sem farin er að tíðkast í ritgerðum okkar«.

Hann bendir hér skýrt einmitt á þau atriðin sem mest á ríður þeim sem vill nota málið samkvæmt eðli þess; hann hefir í því sem öðru glögga sjón á því sem þarf til framkvæmdanna, og setur það í fyrirrúmið. Og ekki er það honum að kenna, að íslenzkir málfræðingar til þessa dags hafa látið þessa hlið málsins að mestu liggja í þagnargildi.

Ef vèr nú lítum á efni bréfanna, þá kennir þar margra grasa. Tómas Sæmundsson skrifar aldrei út í bláinn, hugsanir hans fá aldrei að reika tilgangslaust, eins og skýhnoðrarnir sem hvarfla þangað sem blærinn ber þá; hann á alt af eitthvert erindi við þann sem hann skrifar, annað hvort að fræða hann, eða hvetja hann, eða leggja á ráðin til framkvæmda, eða að rökræða eitthvert áhugamál. Og hvað sem efnið er, þá er hann þar með

lífi og sál; allur hans hugur horfir til framkvæmda, snýst að hlutunum sjálfum, hispurslaust, vífilengjulaust. Þessvegna hrífa orð hans eins og þungur straumur; áhuginn, viljakrafturinn blæs lífi í þau.

Bréfin frá háskólaárunum eru eins og við er að búast mest um hversdagslífið, um Tómas sjálfan og um einstaka menn, nám þeirra, próf o. s. frv. Þau sýna hve vel hann hefir notað tímann til að auðga anda sinn og hve opinn hugur hans er fyrir öllu sem fram fer í kringum hann. Hann les blöðin af miklum áhuga og er undir eins heima í stjórnmálum Evrópu. En fyrst og fremst sýna þau hve ant honum er um vini sína, hvernig hann eggjar þá lögeggjan að hugsa um það eitt að fullkomna sig til þess að verða ættjörðinni til gagns og sóma. Hann veit líka hvað hann vill að hver þeirra verði. Jónas Hallgrímsson á að verða eftirmaður Finns Magnússonar við háskólann, Baldvin Einarsson og Kristján Kristjánsson óskar hann að verði amtmenn heima osfrv.

Á öllu er auðséð að hann er að nokkru leyti samvizka eða siðameistari vina sinna. Í öllum efnum eru tillögur hans hreinar, djarfar og drengilegar. — Sumstaðar er hann glettinn og gamansamur, t. d. þegar hann er að telja Jónas á að hætta skrifstofustörfunum hjá landfógetanum og koma til Hafnar:

»Þú hugsar nú víst ekki um annað en hvað mikill maður þú varst, þegar þú, alfarinn úr skólanum, settist niður í höfuðstaðnum sem amanúensis hjá landfógetanum — dönskum manni! Þegar þú um lestatíðina gazt látið dónana sjá þig lapsaðan frá strætinu vera að ganga inn í þau stóru timburhús, hvar þú áttir heima! Gott áttu, Jónas! Sveitastúlkurnar líta á eftir þér, þora varla að líta upp á þig, því þær finna til eigin óverðugleika, þegar þær sjá stúdentinn á dönskum skóm með eitthvað grænt á höfðinu!«

Stundum getur hann ekki orða bundist, er hann hugsar heim, hve heitt hann ann ættjörðinni. Í fyrsta bréfinu (til föður hans) lýsir hann því er Ísland hvarf honum:

»Þankarnir vóru svo margir og hver annari ólíkar tilfinningarnar. Þó man eg eina helzt og hún var þessi: Nú ertu kominn

burt úr hinum mjúku móðurhöndum fósturjarðarinnar — og jafnsnart sagði hjarta mitt mér, að hvað sem svo fyrir mér lægi aðsjá af fegurð landa og staða, þá yrði hún mér þó ætíð í allri sinni fátækt dýrðlegasti bletturinn á jarðríki!«

Hann skrifar Jónasi og minnist á dönsku stúlkurnar:

»Nei, eg vil hafa stúlkurnar heima og gleðja mig þar meðal góðra kunningja, þín og annara sem fósturjörðina elska, og vonast til að eg lifi mikið ánægðari, ef eg get gert henni dálítið gagn, en þó eg ætti milliónir dala í þessum góða stað og gæti haft allar lystisemdir sem hann fram býður; eg yrði snart leiður á þeim, en á hinu aldrei«.

Og hann fann líka íslenzka stúlku sem honum leizt á, þegar hann kom í kynnisför heim ári síðar (1829). Af missætti við Reykjavíkur kaupmenn vildi hann ekki biðja þá um far og brá sér norður á land og sigldi á skipi frá Akureyri. Um það skrifar hann Jónasi:

»Annars sá eg einhvern tíma í þessari norðurferð stúlku, sem mér leizt reglulega vel á, og er það sú fyrsta af ógiftum, sem eg hefði viljað eiga af öllum sem eg hefi séð, bæði hér og heima, svo eg er nú af þeirri trú sem eg hafði þar til, að eg gæti aldrei gifzt, því eg sæi enga sem mér líkaði«.

Hann sá hana sem snöggvast, trúlofaðist henni, og kvongaðist henni, er hann kom úr suðurgöngu sinni. Sýnir það hve fljótur hann var að átta sig, og hve fast ráð hans var. —

Föður sínum skrifar hann eingöngu um alvarleg efni og það sem honum mundi þykja fróðlegast að heyra. Bréfin eru hrein og bein og gætir þar fremur virðingar en ástúðar; hann talar til skynsemi föður síns, en ekki til tilfinninganna. Lesi menn t. d. bréfið sem hann ritar honum að loknu embættisprófi, þar sem hann er að leiða honum fyrir sjónir hve ómissandi sér sé að takast langferðina á hendur. Hann skrifar honum síðan skilmerkileg bréf af ferðum sínum. — Í bréfinu sem hann skrifar föður sínum frá Höfn, þegar hann hefir fengið Breiðaból-

stað, kemur dálítil innskotssetning, sem eg verð að setja hér. Hann biður föður sinn að taka við jörðinni fyrir sína hönd:

»Eg bið yður að gera henni það sem þér sjáið að gengið getur, en — fyrir alla muni, þó eg þurfi sízt að taka það fram — án þess að ganga ekkjunni of nærri«.

En merkilegust eru bréfin sem hann ritar þeim Jónasi og Konráði um útgáfu Fjölnis. Engum sem les þau getur dulist, að Tómas er þar aðalmaðurinn. Það er hann sem hefir lagt ráðin á hvernig ritinu skyldi haga, það er hann sem ritar formálann fyrir því, og hugsjónir hans í þessu efni eru svo góðar og gildar, að þær gætu enn verið leiðarstjarna fyrir íslenzkt tímarit handa alþýðu manna. Það er auðséð að hann hefir verið gagnkunnugur beztu tímaritum sem þá voru uppi, dönskum, þýzkum, enskum og frönskum, enda hefir hann lesið og talað ensku, þýzku, frönsku og ítölsku. Og hann gengur ríkt eftir því að hugsjóninni sé fylgt og ávítar samútgefendur sína þunglega, er honum þykir þeir víkja frá henni og leggja minni rækt við ritið en hann hafði til ætlast. Hann fer nákvæmlega út í hvert atriði um sig. Fyrst er ytri frágangur ritsins. Um það skrifar hann langt mál, honum þykir brotið of lítið, stíllinn of stór. Markmiðið verði að vera, að kaupendur fái mikið fyrir litla peninga, og hann vitnar til þýzkra, enskra og franskra tímarita. — Efnið verður að velja sem næst hversdagslífinu —

»því fari maður að rannsaka hvað það er, sem gefur hlutunum, og bókunum með, interesse, þá er það þetta, að það grípi sem mest inn í lífið, höndli sem mest um það, sem menn helzt finna nauðsyn á að yfirvega og vita eitthvað um«.

Hann minnist á hverja grein sem kemur í Fjölni og segir skorinort skoðanir sínar um alt. Athugasemdir hans eru jafnan heilbrigðar, hann er svo hagsýnn, sér svo ljóst hvert hann ætlar, og miðar alt við það hvort það færir

nær eða fjær því marki sem hann hefir sett sér. Hann hefir ótal verkefni fyrir augum, biður félaga sína að rita greinar um sum þeirra, bendir þeim á heimildarrit, greinar til að þýða o. s. frv., og sjálfur lofar hann að leggja sinn skerf til, og í raun og veru var hann sá þeirra félaga, sem ekki lét standa upp á sig. Og þó á hann stöðugt að berjast við heilsuleysi og annríki. Átakanlegt er það hve lítið álit hann hefir á framkvæmdum sínum og honum finst hann koma litlu í verk. Hann skrifar Konráði 20. febr. 1836:

»Annað var það, sem eg uni ver og þú munt gefa meiri sök á: að eg ætla að eyða svona lífinu, gagnslaus og ónýtur mér sjálfum, vinum mínum og föðurlandinu. Reynslan hefir kent mér margt síðan eg kom til Íslands aftur, sem eg ekki gat getið nærri áður, og svo mun flestum reynast. Þokuandarnir gera mann daufan og þó helzt latan og kærulausan. Verra er þó, að búsýslið, sem næstum allir neyðast til að hafa til þess að geta komist af, dregur svo mikið frá tímanum og eykur manni þvílíkt óyndi oft með því sem ekkert er í varið, og beztu augnablikin tapast algjörlega. Embættisstörfin taka ærinn tíma, og eg þoli ekki að skrifa meira (bara að lengdinni til) í svo sem tvo daga en sem svarar einni prédikun. Eg hefi orðið að taka pilta til að hjálpa upp á inntektirnar, svo eg gæti komist af, og þá ef til vill kvittað nokkuð af þeim miklu skuldum, sem eg enn er í, — og svona gengur alt lífið til að hafa af fyrir sjálfum mér og raunar engum til gagns, svo eg veit ei hvenær eg fæ lokið þeirri miklu skuld, sem mér finst eg standa í við föðurlandið, eður hve nær eg kemst til að leggja hendur á það, sem eg eiginlega hafði ætlað alt lífið til að koma í verk«.

Litlu síðar í bréfinu segir hann:

»Líka hefi eg enn fast plan að ganga eftir í öllu, sem eg held reiknað sé upp á Ísland, en af því það er í sumu býsna afbrugðið vitleysunni, sem hér viðgengst, fæ eg marga mótstöðumenn, sem ekki kunna nýjungunum og fara þó fækkandi, því Íslendingar okkar eru þó skynsamir og taka sönsum«.

En það er hin mesta furða hve miklu hann fær afkastað í ritstörfum, og þegar honum þykja félagar sínir

vanrækja Fjölni, verður hann stundum heldur en ekki þungorður í þeirra garð, og þó skín alstaðar út úr bréfunum hin fölskvalausa ást til þeirra og virðingin fyrir gáfum þeirra og kostum: og ekki er það undarlegt, þótt hann þykkti illa, er þeir ávítuðu hann fyrir illan frágang á ritgjörðum hans, þegar þess er gætt, hve nærri hann tók sér til að leysa sinn skerf af hendi, en honum þótti efndanna vant frá hinum. Í hinu harðorða bréfi til Jónasar, sem eg áður gat um, færir hann sér til afsökunar, hve stuttan tíma hann hafi haft til ritgjörðanna og þó orðið að ljúka við þær þegar hann átti annríkast —

»Eg einmitt á meðan stóð svo á mér, að eg ekki gat staðið lengur en svo sem þriggja kma tíma við skriftir hvíldarlaust, eður það átti ekki lengri bið, ef í þá átt var horft, áður blóðið gengi upp úr mér! Má þá ráða, að mér væri fyrsta kappið, að koma því einhvern veginn á blað, sem mér var í hug, áður en ólagið kæmi, eður eg misti það aftur, og eg mætti ekki hima lengi yfir hverju orði að svo vöxnu máli. Og að síðustu sýndist ekki þörfin eins brýn til þess, er eg átti von á, að þið færðuð þvílíkt í lag«.

En næsta bréfið til Jónasar er aftur átakanlega elskulegt. Þá var Jónas veikur.

Bréfin sýna að honum hefir verið það hugleikið að rita Íslandssögu, og hann kynnir sér æ betur alt sem að henni lýtur. Hann biður Konráð að gera félag við Jón Sigurðsson til að gefa út íslenzkt fornbréfasafn. Hann er farinn að safna gömlum kvæðum og sálmum, og frásöguritum viðvíkjandi sögu landsins, og hann safnar þjóðsögum. Hann skrifar Jónasi um alþýðubók, sem hann vill þeir semji:

»Taktu að þér alt það sem við kemur náttúrunni, einnig dæmisögur og frásögur. Eg skal taka það historiska, geografiska, psykologiska og filosofiska«.

Andi hans er óþreytandi, en heilsan bilar. Hann skrifar Konráði 11. sept. 1840:

»Mér er óhægt að skrifa liggjandi á hliðinni, en má ekki rísa upp. Hamingjan má vita hvort við skrifumst á oftar. En hvað

sem því líður: Eg bið þig og ykkur að muna eftir Íslandi og kenna það niðjum ykkar og barnabörnum, þá gætir minna þó hinir eldri týni tölunni«.

En það yrði seint að telja upp alla þá staði í bréfunum sem eru átakanlegir, af því að þau eru mögnuð þeim eldmóði áhugans sem hlýtur að fá á hvern mann, og sé einhver svo fáfróður, að hann viti ekki hvað ættjarðarást er, þá lesi hann þessi bréf. —

Góður viðbætir við bréf Tómasar sjálfs er bréfið sem eftirmaður hans á Breiðabólstað, Jón prófastur Halldórsson, ritar Jónasi Hallgrímssyni 15. febr. 1844 um Tómas, og virðist honum þar lýst af mikilli sannleiksást. Bréfið er prentað aftan við bréf Tómasar.

---

Meðan eg hefi verið að lesa rit Tómasar Sæmundssonar síðustu dagana, hafa mér aldrei úr hug liðið tvö erindi eftir Jónas Hallgrímsson. Þau hafa komið aftur og aftur, og mér hefir fundist eg smám saman skilja þau betur en áður. Allir kannast við vísuna:

Tindrar úr Tungnajökli;
Tómasarhagi þar
algrænn á eyðisöndum
er einn til fróunar.

Vísan er ósköp blátt áfram, en mér finst eins og eg sjái hilla undir annað bak við orðin. Skyldi ekki skáldinu hafa flogið í hug hve sviplíkt hið stutta æfistarf Tómasar var þessum litla bletti, sem kendur var við hann og stóð þarna algrænn við jökulinn, með eyðisandana alt um kring; var ekki líf hans hið fegursta dæmi þess hvernig gróðraraflið býður öflum auðnar og kulda byrgin, og var það ekki fróun að hugsa til þess, að einhvern tíma kynni landið að gróa upp, úr því að þessi reitur gat haldist svona — »algrænn á eyðisöndum«.

En hitt erindið var þetta:

Lengi mun hans lifa rödd,
hrein og djörf, um hæðir, lautir,
húsin öll og víðar brautir,
er Ísafold er illa stödd«.

En hvenær er þjóð illa stödd? Hún er það, ef kuldi kæruleysisins kemst inn að hjarta sona hennar og dætra, ef eldur áhugans sloknar. Hún er það, ef einstaklingarnir hugsa fyrst um sjálfa sig, en síðast um hag ættjarðar sinnar. Hún er illa stödd, ef börn hennar hætta að berjast fyrir því sem satt er og fagurt og gott og nytsamlegt, án tillits til þess hvort það er þakkað eða vanþakkað. Hún er illa stödd, er menn gleyma því, að vegurinn til fullkomnunar er vegur áræðis og atorku, vegur karlmensku og drengskapar, eða eins og Konungsskuggsjá kemst að orði: »ef úáran kann at koma í fólkit sjálft, sem byggir landit«.

7. júní 1907.

GUÐM. FINNBOGASON.

---

# Frà Ròm til Napoli.

## þáttur úr ferðasögu Tómasar Sæmundssonar.

Prenta lét Jón Helgason.

---

Nú var liðið fram í marzmánuð [1833], veturinn umliðinn eður réttara sagt vetrarmánuðirnir, því að varla mundu Norðurlandabúar, sízt Íslendingar, mega vita það vetur kallað, er hvorki hefir að kalla frost né snjó og sem aldrei fyrri á nokkrum tíma árs hefir á jafnlöngum tíma átt að segja af jafnmikilli blíðu. Áður en eg vissi af eður vildi var mig borið að þeim tímanum, er eg skyldi yfirgefa hina indælu Rómaborg, hvar eg hafði átt næstum fjóra hina ánægjulegustu mánuði og sælustu daga æfinnar.[1] Eg hafði enn þá ekki nærri satt mig á að skoða hennar ótal sjónarverðu hluti, sem ekki var heldur von, því að lengsti mannsaldur er þar til helzt til stuttur og eg hefði orðið að beita ofríki við sjálfan mig, til þess að slíta mig burtu, ef eg hefði ekki átt í vændum að komast enn lengra áleiðis til nýrrar fegurðar, sem eg ekki þóttist mega láta óséða, og síðan að fara enn einu sinni um Rómaborg, er eg sneri heim á leið. Nú var ferðinni heitið til Neapel, þaðan niður á Sikiley, og svo, ef tekist gæti, til Grikklands. Hingað átti nefnilega í miðjum apríl að fara lystisjóferð dampskip frá Neapel og hafði gengið um það boðbréf um mestan hluta Norðurálfunnar haustið og veturinn á undan. Þeir sem réðust til ferðar þessarar, og voru víðsvegar að úr Englandi, Frakklandi, Prússlandi, Þýzkalandi, Schweitz, Vallandi og yfir höfuð úr flestum löndum Evrópu, fóru nú að draga sig til Neapel; var svo til ætlað, að skipið væri burtu í þessari ferð svo sem fjóra mánuði áður það kæmi til Neapel aftur í ágúst og kæmi við á meðan á

---

[1]) Tómas kom til Rómaborgar 10. des. en hafði áður dvalið rúmar 3 vikur í helztu bæjum Norður-Ítalíu, Venedig, Padua, Ferrara, Bologna og Flórenz.

30—40 höfnum, þar sem fegurst er og mest að sjá um Miðjarðarhafið, Grikkland og Litluasíu alt til Miklagarðs, hvaðan snúa átti heimleiðis.[1]) Á skipið gátu komist svo sem 100 herramenn og næstum annað eins af þjónustufólki að meðtöldum öllum hásetum skipsins. Þetta var því einhver fýsilegasta ferð, sem nokkurn tíma hefir stofnað verið [til], því bæði mundi hér geta að líta einhverja hina fegurstu og markverðustu staði veraldarinnar, og vart munu heldur þess dæmi, að menn úr jafnmörgum löndum hafi í einu félagi gerst til svo langrar ferðar, hvar alt skyldi við hafa, er fengið gæti sem mestrar ánægju; en þó ódýrleikinn væri henni einnig til gildis talinn, og hún ekki mætti heita kostnaðarsöm, eftir því sem ferðir gerast þar um svæði og með þvílíkum skipum, þá var hún samt þeim hollust, sem nokkurt höfðu bein — eða réttara silfur — í hendi, því að fararkaupið var um alla fjóra mánuðina fyrir þá sem voru í herramanna eða heldri manna tölunni minst 300 spesíur, mest 420 spesíur, og var þar með að eins borgaður flutningurinn um sjóinn og fæði, meðan á honum stóð; í öðru lagi varð að borga ferðalögin á landi og mat þegar skipið var kyrt á höfnum og þurfti til þess einu sinni eða kannske tvisvar annað eins, þó menn, þegar svo varð viðkomið, gæti sparað sér náttstaði á landi með því að sofa á skipinu, sem leyfilegt var án frekari kostnaðar. Þó eg fyndi mig helzt ófæran að kosta svona miklu til fararinnar, þótti mér vissara að vera í Neapel um það leyti skipið legði út ef eitthvað kynni ráðast úr með farið. Eg leitaði mér því lags þangað og kom mér í vagn og átti að borga fyrir flutningskaup og fæði að kvöldi og gistingu meðan stæði á ferðinni 5 scudi eða specíur; er það hér um . . .[2] mílur vegar og oftast farið á 4 dögum. Eg kvaddi kunningja mína og fór á stað því að mér tjáði nú ekki að dvelja lengur, fyrst svona hagaði til, en viljugur fer enginn frá Róm undir páskana, því þá er svo mikið um dýrðir, sem ekki á sinn líka í heiminum og flestum mun minnisstætt, sem það hafa séð. Að vísu var um alla föstuna kyrt og hljótt um staðinn sem auður væri, en þó tekur yfir þegar hin síðasta vika fyrir páskana byrjar; það er þá svo sem allur bærinn íklæðist sorgarbúningi, alt er þegjandi, klukknahljómurinn hættir og

[1]) Frá þessari ferð sinni skýrir höfundurinn stuttlega í bréfi til föður síns, dags. í Neapel 28. ág. 1833, eftir að hann er kominn aftur til Ítalíu, sbr. „Bréf Tómasar Sæmundssonar" (XXI. bréf).

[2]) Eyða í handritinu.

hinar fögru vatnsæðar borgarinnar, einhver hin mesta prýði, hætta að spýta, svo sem væri sjálfur dauðinn yfir hana kominn; þetta stendur þangað til ofarla páskanóttina. Undir páskamorguninn snýr við blaðinu; í þúsunda tali hljóma þá klukkurnar aftur frá turnunum; í einu vetfangi er kúfur Péturskirkjunnar frá efsta til neðsta skreyttur ótölulegri mergð olíuljósa, svo að ei einasta bærinn og landið umhverfis, heldur jafnvel skýin taka birtu af. Vestan frá sjó og austan úr fjöllum, af öllum þeim hæðum hvaðan fyrst grilla mátti Róm, langar leiðir burtu, þegar bezt var skygni um fagran dag, getur hana nú að líta svo sem í himnesku ljósi eða ljóma meðan alstaðar er nótt. Sjálfur upprisinn gengur hinn heilagi faðir fram á musterisbustina, og þó hann sé lítill í samanburði við steinmyndir postulanna í kringum hann, hefir hann ekki lítið fyrir stafni, því meðal alls konar söngvara og hljóðfæraglaums boðar hann nú hátíðina og lýsir blessan yfir hinum mikla grúanum, er neðan frá hinum stóra forgarði, sem fram af er kirkjunni, veitir honum á hnjánum sína tilbeiðslu, og mænir upp til hans svo sem æðri veru. Með honum eru í för uppi á þaki kirkjunnar sem nærri má geta, allur skari hinna geistlegu svo hundruðum eða þúsundum skiftir, og er hver ífærður þeim skrúðanum sem hans stétt hæfir og hann á fegurstan til. Þegar maður nú þar á ofan setur sér fyrir sjónir morgnana, eins og þeir eru á þessum ársins tíma á Ítalíu, og hversu alt er við höndina, sem til fegurðar horfir, getur ei hjá því farið, að þvílík sjón fái á hvern mann, sem hefir tilfinning, jafnvel þó hann ekki láti sig í villu leiða af útborði hlutanna og ætli hann hafi (eins og páfatrúendur) séð svo sem nokkurt heilagra samneyti.

Samferðamenn mínir tíndust smátt og smátt á vagninn [og] voru þetta sinn ungur kaupmaður frá Frakklandi, tvenn vallenzk hjón með börnum sínum stálpuðum fjórum og vinnukonu, og voru það alt sjónleikarar eða sjónleikaraefni, sem ætluðu til Neapel eða niður í Sikiley; mátti svo strax ætla, að hér mundi verða gott til viðræðu og skemtunar; þau voru vel kunnug alstaðar, hvar vallenzka var töluð, um alt Valland og Dalmatíu-héruð, en lítið út þaðan. Þvílíkra lifernisháttum víkur svo við, að þeir hafa hvergi stöðugt aðsetur, heldur selja þjónustu sína einhverjum þeim, er veita forstöðu sjónleikum um borgirnar og hlaupa frá einni til annars eftir nokkurra vikna dvöl, eftir því sem bezt er boðið, og lifa oft við góð kjör, því um Valland, þar sem svo mikill grúi er af sjónleikahúsum, er auðvelt fyrir þá að koma sér fram, sem fengið

hafa orð fyrir kunnáttu í því sem af slíkum útheimtist. Þeir sem slíka iðn stunda, eru löngum liprir og góðir í umgengni og glaðværir, en vanir eru þeir að láta hverjum degi nægja sína þjáningu, láta ganga á meðan til er og leita sér ánægju með flestu móti, enda nægir þessi atvinnuvegur að eins til að hafa af fyrir lífinu meðan heilsa tilvinst, og ef vel lætur og kostnaðinum [er] aldrei leyft að yfirstíga tekjurnar, má vel farnast. Annar húsfaðirinn hafði fest sig í næstu 18 vikurnar í Catínea, og tók fyrir daginn svo sem 4 spesíur til samans fyrir sig og hyski sitt, og sagði hann það með sparsemi nægja mega þeim til framfæris. Eftir því sem gera var á Ítalíu, var fólk þetta vel að sér og gat talað með greind og góðum skilningi um marga hluti, enda var heldur ekki þagað. Eg gaf mig lítið við talinu fyrst í stað, en mér hélst það ekki lengi. Önnur af konunum fór að bera mér á brýn, að eg ætti víst »*amorosa*« (ɔ: unnustu) eftir í Róm, fyrst eg væri hljóðari en ungum mönnum annars hæfði, og eg samsinti henni í því, en þessi »amorosa« væri Róm sjálf, og lét hún sér það skiljast, fyrst eg ferðaðist, eins og hún komst að orði »*per la antichita*« — vegna fornleifanna. Hún hafði verið fríð. en var farin að ganga af sér, enda var hún komin yfir fertugt. Bóndi hennar var nokkuð eldri, gamaldags maður í mórauðum frakka með hárið niður á herðum, andlitið langt og hvítt. Hann var svo sem ánægjan sjálf til að líta, og virtist að gleðja sig yfir barnaláni sínu, en hann sá ekki sjálfan sig undir eins og þau, og því fór það hjá honum, sem öðrum mundi hæglega fljúga í hug, að ekki væri með honum og þeim mikið ættarmót, enda voru börnin ekki svo lík hvert öðru sem þau áttu að vera skyld. Konan sýndist líka sjá, að eg hugsaði þetta, og hélt á meðal annars langa ræðu um hjónaband; sagðist ætíð hafa álitið það höfuðatriðið í þessari stétt, að menn lifðu saman í einingu og friði, og hvort fyrir sig hjónanna hefði fullkomið frjálsræði að haga sér, eins og því líkaði, án þess hitt léti sig það nokkru skifta. Kvað hún sér svo margt hafa verið flutt um mann sinn og honum um sig, að það hefði verið lukkan beggja að hvorugt hefði gefið því neinu gaum. Bóndi hennar tók þá í sama strenginn og sagði með mikilli glaðværð ýmsar sögur af sjálfum sér, sem skilja hefði mátt á tvo vegu, ef illa hefði verið útlagt, og mátti eflaust segja nokkuð þessum hætti til afbötunar, því hann miðar þó í það minsta til að gjöra sér að góðu það, sem í slíkum stéttum kringumstæðurnar svo sem með einslags nauðsyn bera aflaga. Hin konan var næsta gömul og ófríð og

ekki eins skrafhreifin, en þó líka geðug; hún var fyrir ekki löngu gift í þriðja sinn og var maður hennar yngri, eineygður, nokkuð vígalegur og frísklegur. Hver talaði það sem honum bjó í skapi með miklu frómlyndi og hreinskilni; bæði stjórnin og trúarbrögðin komu til umtals, þó einna hættulegast sé að láta þar um margrætt er menn ekki þekkjast; gerði [hinn eineygði] meðal annars þessa athugasemd um páfann, að sér ekki þætti hann vera velbúinn að því, að ganga á öxlum annara, er með hann væri farið í kirkjuna, þar eð Kristur og postularnir, sem hann hefði sér að fyrirmynd, hefðu lengst af farið ferða sinna fótgangandi og án viðhafnar.

Undir hádegið var vagninn tilbúinn, sem eg átti að fara með; við héldum út af suðurhliðinu hjá Jóhannesar-kirkjunni, sem veglegust er allra kirkna í Róm, að Péturs-kirkjunni einni frátekinni. Vegurinn liggur svo suður eftir rómversku völlunum að stefna vestan með Alba-fjallinu. Þessi vegur liggur svo sem á milli höfuðveganna og hefir því orðið utan hjá, og þó eg ekki hefði farið hann fyr, kom mér þar ekkert það fyrir sjónir, er aðgætni væri vert, að undanteknum fáeinum vatnsrennubrotum. Þegar dregur að fjallsrótunum kemur hann til hægri á Appíaveginn [ɔ: Via Appia], sem vestastur er allra þeirra vega, er liggja suður frá Róm; er hann og þeirra viðhafnarmestur og veglegastur, því um hann fóru sigurhrósin hin miklu inn til borgar og við hann beggja vegna vildu flestir Rómverjar hafa leiði, sem mannsmót var á; eru þar því, svo mörgum mílum skiftir, einlægar rústir. Eftir að vegirnir eru komnir saman, fer að liggja upp í móti, og víðsýnið verður meira. Maður fer enn vestan í Alba-fjallinu í miðjum hlíðum. Róm sýnist nú liggja norður frá, þar sem lægðin er mest á flötunum og yfir hana bera við himinn langt norður hálsarnir, er ganga austan úr Appennínafjöllum og fara vestur til sjávar; í austri er jafnan Appennínafjallgarðurinn, en Alba-fjallið, sem liggur einstakt vestur þaðan á rómversku völlunum 3 mílur undan, í hádegisstað frá Róm, ber snart á milli til vesturs, svo hans gætir ei síðan. Til vesturs, eða til hægri handar, er einlægur flatur aflíðandi niður að sjó svo sem þrjár mílur að lengd; var það áður lönd Latínanna og Rútúlanna, en nú er það að kalla í eyði; ganga þar nú hjarðir hesta og nauta, en mönnum er þar varla líft. Með öllum sjónum eru héðan af og útnorður frá Tiberfljóti einlægir flóar, hinar illa ræmdu pontisku forir; hagar því svo til, að landið er svo lágt, að vatnið, sem kemur austan úr fjöllunum, ekki nær afrás, svo þar verður dammur

eða stöðuvatn, og breikkar þetta láglendi, eður nær austar, sem sunnar dregur. *Castel Gandolfo*, þorp nokkurt, liggur fyrir ofan veginn eður til vinstri handar, sem og albaniska stöðuvatnið, á hvers vesturbarmi þorpið stendur, en lítið lengra útsuður liggur *Albano*; er þaðan talið 15 miglíur[1]) til Róm. Er staður þessi lítið norðar á fjallinu en *Alba longa* kvað hafa staðið til forna, og fer vegurinn gegnum bæinn.

Við höfðum þar viðstöðu svo sem eina stund, til að taka á fóður hestanna, og varði eg þessari stund til að kynna mér betur albaniska stöðuvatnið og fara til baka norður að Castel Gandolfo. Vatn þetta liggur hátt upp í fjallinu, það er viðlíka á alla vegu og á að gezka nokkur hundruð faðmar að þvermáli; er langt niður að vatnsborðinu, snarbratt og ilt, mestalt þyrnum vaxið og öðrum óræktarstönglum eður ýmsum skógarhríslum innan um klungrin, skuggalegt nokkuð, en þó fallegt og sérlegt (ejendommeligt) og málverkslegt (pittoresk). Það er auðsjáanlega undirkomið af jarðeldum með sama hætti og stóru vötnin okkar, Þingvalla- og Mývatn. Skamt þaðan sunnar, vestan í fjallinu, er annað vatnið til, *Nemi*, hjá þorpinu, sem kent er við það, og er það næstum míla að ummáli. Albaniska fjallið er gamalt eldfjall; er þar fyrir djúp eldskál (crater), sem að mestu er grasivaxin, ofan í efsta topp [fjallsins] og er hann af því kallaður hola fjallið (*Monte cavo*). Þess getur í fornsögum Rómverja, að albaniska vatnið hafi hér um bil 400 árum fyrir Krists fæðingu af óþektum orsökum (sjálfsagt af náttúrlegum eldsverkunum) vaxið svo, að þeim fór að standa ótti af, að það mundi ryðja sér farveg vestur á láglendið og máske olla skemdum á sjálfri Rómi. Fóru Rómverjar þá til spásagnarmanns nokkurs, er þeir höfðu hertekið frá Vejiborg, sem þeir um sama leyti voru að berjast við að kúga undir sig og gekk heldur treglega. Spámaðurinn gaf þeim í skyn, að þeim mundi verða sigurs auðið á borginni — —[2]). Rómverjar tóku sig þá til og létu gjöra undirgang mikinn að vestan af sléttunni, gegnum þann barm vatnsins, er þynstur var og hættast var við, að fram mundi brjótast fyrir vatnsþyngslunum; ruddu þeir verki þessu af á einu ári — —[2]). Þetta stórvirki var svo tryggilega gjört, að það er ennþá að mestu óhaggað.

---

[1]) *Miglio* er ítölsk míla, litlu skemri en $^1/_4$ vanalegrar mílu (c. 900 faðmar).

[2]) Hér er eyða í handritinu fyrir nokkrum línum.

Fékk eg mann nokkurn í Castel Gandolfo til að fara [með mér] niður að vatnsborðinu og sýna mér þar sem vatnsrennan byrjar niður við vatnið, og lézt hann fús til þess; en þegar við höfðum klöngrast niður undir vatnið, fór hann að spyrja mig að, hve miklu eg raunar vilji kosta upp á að sjá þetta (»*Quanti volete spendere?*«). Var það uppátekið ráð okkar beggja, hans að nefna þetta ekki fyrri, svo eg gengi ekki frá, þó hann gerði sig kostbæran með skoðunarlaunin, né tæki annan meðal grúans af iðjuleysingjunum, sem í sérhverju þorpi á Ítalíu tvístíga um torgin og sitja um þá, sem á ferð eru, að þeir geti haft út úr þeim peninga fyrir að sýna það sem þeir kalla markvert þar í grend við þá. Eg að mínu leyti lét mér hægt um annað fyrst um sinn en að vita hvar stígurinn lá niður að rennunni, og sem við nú höfðum hann farið, svo eg gat séð hvar gersemið var, sem hann ætlaði að sýna mér, lét eg í veðri vaka, að mér hefði verið sagt í Albano, [að] það væri ekki gefandi meira fyrir að sjá þetta en 2 bajocchi[1]) (svo sem 3 skildinga), en fyrir góðrar vináttu sakir vildi eg ekki horfa í að gefa svo sem 8 skildinga. Þetta var að sönnu viðunanlegt eftir því sem á þessum stöðum er títt fyrir viðlíka þénustusemi, en fyrst hann ætlaði sér að græða svo mikið, þá kom mér ekki á óvart, að hann tæki, sem til ætlað var, þetta fyrir smánarboð og fitjaði upp á nef sér með þeim skringilega hætti, sem þessara manna siður er hjá Ítölskum, og ekki verður lýst. Sagðist [hann] í það minsta hafa ætlast til að fá 2 paoli[2]), og hrópaði eins og hann gat til þess, er hafði lyklana að innganginum og líka mundi heimta nokkuð fyrir að láta þá í skráargatið, að hann skyldi ekki ljúka upp [fyrir mér], þar eð kaup okkar hefði ekki gengið saman. Eg bað hann samt vel að lifa, ef hann ekki vildi taka við þessum hálfa paolo[2]) og fór þangað sem rennslið var, skamt þaðan, en hann stóð eftir og gladdi huga sinn við, að eg sæi ekkert og yrði feginn að kalla til sín aftur, og þess vegna vildi hann ekki taka við því, er eg bauð honum, sem hann annars hefði orðið feginn og var hér um bil nóg. Var þar svo um búið, að garður, sem var liðug mannhæð, var hlaðinn í ferhyrning, 3 faðmar á hvern veg, í kringum útrásina, eður sinn garður hverjum megin hennar frá

---

[1]) *Bajocco* = $^1/_{100}$ úr *scudo* (ítölskum dal) = c. 4 aurar í vorum peningum.

[2]) 1 *paolo* = 10 bajocchi = $^1/_{10}$ scudo = 39 aurar í vorum peningum.

vatninu upp í brekkuna, og þá aftur 2 garðar, annar úti í vatninu og hinn uppi í brekkunni til að samtengja þá til endanna, svo fornvirkið yrði ekki séð nema gengið væri inn um dyr nokkrar, er á voru múrnum með læstri hurð fyrir. Þessar dyr eru ætlaðar að draga þeim peninga, er lyklana hafa í vörzlu sinni mann eftir mann; en múrinn sjálfur var farinn að fyrnast, svo að eg gat klifrast upp á einum stað og sá nú hversu gangurinn er höggvinn jafnt vatninu inn undir fjallið; er hann að hæð svo sem 3 álnir, en á vídd ekki fullar 2, og er meira en 1200 faðma langur, og nær hann í gegnum það vestur úr. Er það verk ærið mikið og þykir undrum gegna að því varð komið af á einu ári, þótt trautt gætu nema svo sem tveir í senn að því staðið. Eg lét fylgdarmanninn sjá mig heldur hróðugan uppi á múrnum og gaf honum í skyn, að betra væri að gera dálítið að múrnum, svo ekki væri hægt að komast upp á hann, og fór nú í skyndingu skemstu leið til Albano, því að ekki fýsti mig að fara sömu leið aftur og eg var kominn, er eg gat hjá því komist, því vel gat svo til tekist, [að] eg ætti þar ekki vinum að mæta eftir að svo var mikið að gert.

Vagninn var þá að búast til ferða og fór eg ásamt nokkrum af samferðamönnunum gangandi á undan, því kvöld þetta og vegurinn var hvorttveggja hið fegursta. Vegurinn liggur altaf í miðjum hlíðum fyrir ofan stærstu jarðföllin og ýmist olívu- eða eikarskógar og margs konar tré önnur og runnar eður akrar og aldingarðar umhverfis. Við mættum meðal annars undir sólarlagið vinnukonunum frá Albano, sem fóru inn í bæinn að loknu dagserfiðinu á ökrunum; voru þær til samans — eg held — mörg hundruð. En aldrei hefi eg séð blómlegri almúgastúlkur og rak mig í stanz að finna þar ekki nokkra eina, sem ekki mætti heita fríð og vel útlítandi og [var] eins og væri með þeim [öllum] ættarmót. Það er líka gert orð á því hvað frítt sé kvenfólkið í Albano. — Albaniska fjallið er, eins og önnur eldfjöll, líkt á alla vegu og beygist nú vegurinn smátt og smátt meir til landsuður svo rómverski dalurinn fer að ganga fyrir og Rómaborg er horfin undir útnorðurenda fjallsins, en slétturnar vestur til sjávar og pontisku forirnar, er taka við næst sjónum, breikka að sama skapi sem dalurinn blasir betur við, er liggur inn með fjallinu að sunnan upp undir Appennína-fjöll. Hann er áþekkur rómverska dalnum, sem liggur upp með Tíberfljótinu og gengur honum nærfelt jafnsíðis, en allur er hann þó minni og styttri. Það er breitt bygðarlag og fagurt hérað, og heldur að því að norðan albaniska fjallið og for-

írnar eður sveitin, sem austur af þeim gengur austur að Appennína-fjöllum eður Sabína-fjöllum, því svo er kölluð fjöllin er liggja austur af þeim, vestan við aðal-Appennína-keðjuna og gera aðskilnað milli þessa héraðs og hins rómverska, sem fyrir norðan er; að austan tekur smátt og smátt að hækka, þar til Appennínafjöllin taka við, en fyrir sunnan er fjallshryggur mikill og brattur; er hann að austan að nokkru leyti áfastur viðAppenninafjöll og stefnir hann í útsuður út til sjávar hjá Terracína; hann er nærfelt á mörkum milli ríkjanna páfans og Napoli-konungs; á páfinn lönd suður þangað, en Napoli-konungsríki tekur við að sunnan, og er Terracína syðsti bærinn sem páfinn á. Á þessu svæði öllu bjuggu Volskarnir forðum og Ækvarnir (*Aequi*) upp til fjalla austur af þeim. Veitti Rómverjum örðugt að vinna bug á þeim og hlutu þeir af þeim mörg vandræði lengi fram eftir, því að Volskar höfðu landþröng, en útrýmið helzt norður á bóginn, því að sunnan og austan verðu taka að miklu leyti fjöllin við; þeir voru þar að auki hreystimenn og nokkurn veginn velmegandi, því landið var alt frjósamt með góðri ræktan, og er þar ennþá nokkur bygð að austan til, en þegar vestar dregur og landið tekur að lækka verður æ strjálbygðara og loks algjörleg auðn, því þá þykir ekki lengur við vært fyrir óheilíndum þeim, er standa af forunum.

Vegur okkar lá nú framhjá *Riccia* (Aricia) og *Gengano*, sem er á Nemivatns-bökkum, hátt uppi í fjallinu. Alt er þetta skógivaxið, aldintrjám og görðum. Þegar farið var að skyggja komum við til *Velletri*; var sá bær til forna höfuðborg Volska og er sunnan í albanisku fjöllunum, næstum 3 mílur frá Albano, en 6 [mílur] frá Róm. Það er ekki all-lítill bær og sæmilega bygður með hér um [bil] 12000 innbúa; er þar fagurt mjög og víðsýni dýrðlegt yfir alt land Volskanna og fram yfir slétturnar og pontisku forirnar vestur til sjávar. Það er nokkuð svipuð fjallasjón og bygðarlag frá Róm að sjá eins og hjá oss í Rangárvallasýslunni, svo sem frá Odda, og væri þá Skarðsfjall [á Landi] Soracte, fjöllin fram af Heklu Sabínafjöll, en Fljótshlíðarfjöllin (þó þau séu heldur mikil fyrirferðar og ekki nógu laus að austan til) Albaniska fjallið. Velletrí bæri þá að standa utarlega í Fljótshlíðinni, en hérað Volskanna er áþekt vikinu milli hennar og Eyjafjalla, og þó breiðara, en fjallgarðurinn fyrir sunnan það áþekkur Eyjafjöllum, og stendur þá líkt á með Terracína eins og austustu bæina undir Eyjafjöllum, nema hvað Terracína liggur á sjávarbakkanum og ekkert bil er orðið millifjalls og sjávar. Landeyjarnar eru sem pontisku forirnar. Fjall

er þar einmana út við sjóinn, nú áfast við landið, — áður kvað það hafa verið ey, en landinu þokað út á seinni öldum, og var hún kend við Circe. Segir sagan, að Odysseifur hafi komið þar við á flakki sínu eftir Trójumannabardaga, meir en 1100 árum fyrir Krists fæðingu, og þar hafi hún gert félaga hans að svínum, líklega gefið þeim vel í staupinu, en sjálfan töfraði hún hann til ásta við sig, svo að tafðist fyrir honum heimförin. Eynni hagar að sumu leyti ekki ólíkt í samburði við landið og Vestmanneyjum hjá okkur.

Eg skoðaðist dálítið um í Velletrí, en fór bráðum að hátta og vissi ekki fyrri til en eg með birtunni var vakinn með því að mér var sagt, að vagninn okkar væri kominn á stað; eg klæddist í mesta snatri og annar samferðamaður, sem hafði sama svefnherbergi og eg, og náðum vagninum, er drjúgan kafla var á veg kominn. Var þetta gert til að herða á okkur, en ekki í þeim tilgangi að láta okkur eftir, því að það geta ekki vagnmenn á Ítalíu nema með skaða sínum, er þeir eru jafnan látnir eiga eftirkaupin af þeim, er með þeim ferðast, en við áttum langa dagleið fyrir höndum niður til Terracína, eður meira en 10 mílna [veg]; þó er hún verri og óhollari en hvað löng hún er [þessi dagleið], því nú er farið yfir alt austurtaglið á pontisku forunum, og þykir gott að vera kominn áleiðis nokkuð, áður sól er langt farin, því svo er óholt á vegi þessum, að óvönum er ef til vill dauði búinn, ef honum verður að sofna í vagninum eða á leiðinni, og var okkur því alvarlega tekin vari fyrir því. Á nóttunni og framan af deginum liggur oft þoka yfir láglendinu, eins og gerist á Ítalíu þar sem vætukent er og mýrlent, sömu tegundar og næturþokan eður kellingarvellan okkar, sem slær upp, þar sem eins til hagar, á kvöldum framan af sumri, helzt þegar blíðviðri ganga, hitar og heiðríkjur. Standa þá upp úr fjallatindarnir einir, álíka, langt til að sjá, eins og eyjar, sem standa upp úr vatni, er fyllir alla dalina. Þegar sólin kemst hærra og hitinn tekur að vaxa, hverfur þokan, og er þá enn óhollara og erfiðara að halda áfram ferðinni. Varla munu menn að heldur í snöggu bragði finna stóran mun á loftinu [á] þessu svæði hjá því sem annarstaðar, en reynslan hefir kent mönnum, hvað banvænt það er, og ferðamanninum gefur að skilja, að eitthvað muni valda, er honum á öllu þessu svæði umhverfis veginn og vestur til sjávar, varla ber fyrir sjónir yrktan blett, hús né mann, og er þó landið fagurt álitum, frjósamt og byggilegt; því þegar maður frá Velletrí heldur suður eftir veginum,

eru fyrst öldur nokkrar og mishæðir með grasi og skógarrunnum, og þegar algjörlega kemur að sléttunni, er hún öll vaxin grasi og markskonar stönglum og runnum, áþekt og vellirnir umhverfis sjálfa Rómaborg. Eru og margs konar tré til beggja hliða við veginn og víðar út í frá; gætir lítið raka eður votlendis nema um kaflakorn sunnarlega á veginum og eru mýrarnar og dammarnir vestar við sjóinn; ganga um eyður þessar stórar, viltar nautahjarðir sumar og vetur, svo að fyrir þeim er ekki allskostar óhætt að fara hér um vegu. En þó stendur ferðamönnum enn meiri geigur af reifaraflokkunum, sem hingað dreifast austan úr fjöllunum og taka upp fé fyrir þeim og stundum drepa þá, allra helzt ef búist er til nokkurrar varnar. Er af þessum sökum vegurinn frá Róm til Napoli illa ræmdur og var hér lítil ferð á þar til um síðustu aldamót. Gerði Píus 6. páfi þá verklega vegabót, er hann lét leggja brú eftir endilöngum forunum eður láglendi þessu, og grafa mikil díki til beggja hliða og þó helzt vestanmegin, sem oftast stendur vatn í; eru þær síðan miklu þurrari og fljótfarnari; er þessi vegurinn beinastur og liggur vestast, og fórum við hann. Aðrir vegir eru austar nær fjöllunum og liggja hærra, en allir koma vegir þessir saman í Terracína. Hafa páfar síðan, og eins að sínu leyti Napoli-kongar, látið sér ant um, að koma af ránum og gera óhult að fara um vegina, en veitir alt af torvelt, því að einmitt bændurnir, sem næst búa vegunum, halda í hönd með ræningjunum og skjóta skjólshúsi yfir þá fyrir lítinn greiða, og enda fara sjálfir til rána, þegar þeim ræður svo við að horfa, og hafa þá þannig fyrir skálkaskjól. Er þess vegna erfitt að spyrja ræningjana uppi eður hafa hendur í hári þeirra.

Á eyðimörk þessari bar okkur varla annað kvikt fyrir sjónir, en einstöku fáráðlingar, sem bjuggu í kofum hjá veginum, og annaðhvort voru ætlaðir til að lagfæra hann eður höfðu uppeldi af að veita þeim beina, sem um fóru, og öðru hverju bar og fyrir dáta, sem áttu að vera ferðamönnum til hlífðar ef eitthvað skærist í. Allir eru menn þeir, er um nokkurn tíma hafa dvalið á þessum stöðum, auðkennilegir frá öðrum af því hvað bleikir þeir eru og magrir, veiklulegir og illa útlítandi, og mælt er, að fjöldi fólks endist ekki til að lifa hér í 3 ár. Menn segja, að óhollusta loftsins verði jafnvel fénaði [til] vanþrifa, þegar svo ber undir.

Við áðum, eins og vandi er til, tímakorn um miðdegisbilið í lítilmótlegu vertshúsi. Síðan héldum við áfram leið okkar og höfðum margt á tali, sem skemtun var í, því samferðafólkið var hið

kátasta, ljúft og tilhliðrunarsamt mér til handa eins og mest mátti, því að Ítalíenzkir taka öllum fram að góðfýsi og þénustusemi við útlendinga, allra helzt ef þeir verða á ferð með þeim; það er eðlískostur þessa fólks, og fer þeim, eins og öll útvortis háttsemi þeirra og tilburðir, svo lipurlega úr hendi. Þeir vita varla hvað stolt er, og kunna ekki að halda sér niðri, heldur eru þeir eins og börn þegar vel liggur á þeim, — og á Ítölskum liggur, held eg, ætíð vel, — tilbúnir í alls konar galsa og skrípalæti, og þeir kunna ekki við sig nema þeir geti komið útlendingum til að taka þátt í gleðinni með sér og trúa honum, eins og von er, ekki fullkomlega annars kostar. Eg man meðal annars til, að ein af litlu stúlkunum tók upp spil, sem mjög skringilega voru máluð, og kvaddi mig til að spila við sig; var mér sagt til hvernig fara ætti að brúka þau, og lærðist mér það skjótt, en gleymdist eins skjótt aftur, og sat eg þó tímakorn yfir þeim. Við héldum allan daginn áfram sömu stefnu, sífelt til útsuðurs og suðurs, en þegar fór að líða á daginn, þrengdist smám saman milli fjalls og sjávar, svo að síðustu tekur fjallið vestur í sjó eður sjórinn austur til fjalls, og var þá komið til Terracína. Komum við þar um sólsetur.

*Terracína* er að nokkrum hluta bygð á fletinum milli fjalls og sjávar, og tekur frá fjallsrótum fram á sjávarbakkann og liggur lágt, er þetta meiri hluti staðarins og er allreglulegur og laglega bygður. En hinn hluti hans mænir þar ofan yfir og liggur hann upp á sjálfum fjallásnum (sbr. »*impositum saxis late candentibus Anxur*«[1], hjá Horatius [Sat. lib. I, 5. 26]) Er sagt, að Þiðrik af Bern hafi bygt þar höll nokkra, sem enn mótar fyrir, Eg nenti ekki að fara upp í efri hluta staðarins, heldur fórum við eftir það við vorum búnir að skoðast um eins og okkur lysti, heim í vertshúsið, hvar við höfðum valið okkur næturstað.

Var þar vel til húsa komið, enda höfðum við þar góðar viðgjörðir. Garðurinn stóð fremst á sjávarbakkanum og var að nokkrum hluta bygður út í sjó; bárurnar gutluðu hægt og friðsamlega við mölina eður húsvegginn fyrir utan glugga okkar í næturhúminu, og sofnaði eg vært út af við suðu þessa, og kunni svo vel við mig, er eg heyrði hana gegnum svefninn eður í kyrðinni milli dúranna; mér fanst eg vera svo sem heima hjá mér, en mundi þó til og var glaður með sjálfum mér af því að vera kominn í vertshúsið í Terracína, sem mér var svo kunnugt í andanum frá sjón-

[1]) Terracína hét *Anxur* til forna.

arspilinu »*Fra Diavolo*[1]«, sem um þessar mundir var svo oft leikið í Kaupmannahöfn. Terracína er syðsti og síðasti staður í landi páfans; er hér eitthvað 8000 manns, en kaupverzlun lítil og heldur fátækt.

Með dögun vorum við aftur komin til ferða og ókum út af suðurhliði staðarins, eru þar á landsíðuna hengibjörg mikil, en sjávarmegin, eður til hægri handar þá út er farið, hár klakkur, er nær út í sjó og liggur vegurinn í klofningnum milli hans og meginfjallsins, og veitir ekki af að klifjafært sé. Þegar kemur fyrir fjalltána fer vegurinn suður með sjónum í hægum bug, og sjórinn heldur að að vestan, en að austan eru geysilangar brekkur með skriðuhlaupum en óvíða grasi, og efst hamrafjöll. Bar okkur skjótt að landamærum Napoli-konungs, sem hefir hér dáta nokkra í húsi við veginn; er þar, eins og vant er að vera, svo umbúið, að reka megi slá fyrir þvera götu, ef erfiðleikar eru gerðir á umferðinni. Litu menn snöggvast á leiðarbréf okkar, gáfu okkur seðilkorn, sem við skyldum hafa með okkur til Fondi og gerðu okkur lítinn farartálma. Héldum við svo áfram leið okkar fram með sjónum og eru engir bæir né bygð á leiðinni fyr en kemur til Fondi. Er þá farið að minka milli fjalls og sjávar; eru nú fjöllin að austanverðu við staðinn orðin óbrattari og grösugri, og liggur staðurinn við fjallsræturnar sunnan og innanvert við fjarðarbotninn þ. e. flóann, en norður og vestur af honum eru sléttur og láglendi út með sjónum, og lítur svo út sem þær hafi myndast af hroða þeim, sem sjórinn hefir borið á land. Hér er því frjósemi mikil og sér varla frá sér fyrir víngörðum og aldintrjám, en óholt er hér loft sakir dampa þeirra, er í hitunum koma frá láglendinu eður forunum á þá hliðina, er til sjávar veit. Fólk er hér velmegandi og eru innbúarnir að tölu hér um bil — —[2]).

Með því að *Fondi* var fyrsti staðurinn í ríki Napoli-konungs, urðum við fyrir langri og erfiðri rannsókn, og hlaut hvað eina, er við höfðum meðferðis, að koma til skoðunar áður menn léti örvænt um, að við flyttum nokkuð það inn í landið, sem bann væri við

---

[1]) »*Fra Diavolo*« (ɔ: Bróðir Djöfull) er nafn á frægum söngleik eftir *D. F. E. Auber*, frakkneska söngleika-skáldið († 1871). Leikur þessi er um ítalskan stigamannaforingja, er nefndi sig nafninu »*Fra Diavolo*« (hét upphaflega *Michael Pozza*) og var hengdur í Neapel 1806. Áður hafði hann verðið múnkur og þá kallað sig »*Fra Angelo*«.

[2]) Eyða í handritinu fyrir tölunum.

lagt. Eg komst bezt af og var fljótt afgreiddur, því alt, sem eg hafði meðferðis, gat komist fyrir í dálítilli tösku; hinir urðu að tína alt upp úr ferðakistlum sínum, og tók það kafla úr deginum; var farangur þeirra mest grímur og margvíslegur annar fatnaður, sem brúkaður er við sjónleika og margt af því næsta hlægilegt, hvar við þá og bættist hið mikla veður, sem gert var um þetta alt saman af beggja hálfu, þeirra sem áttu og þeirra sem höfðu á hendi rannsóknina. Lá við, að gerður væri upptækur farangur þeirra, og þegar ferðamenn ekki vildu láta sér skiljast, að þessa þyrfti með og búðið var að arga um þetta lengi til beggja hliða með mikilli háreysti og handaburði, las úrskurðarmaðurinn þeim með miklu spekings-útliti einhverja tilskipun eður uppskrift, hvar sjónleikaspjarir (*habiti theatrali*) voru nafngreindar meðal þeirra hluta, er ekki mætti flytja inn í landið, að minsta kosti ekki nema tollur væri greiddur. Þegar þeir nú sáu í hvert efni komið var, skiftu þeir í sér hljóðunum, gjörðu sig óvenju auma og auðmjúka, fórnuðu upp höndunum og settu með hálfkjökrandi rómi upp andlitin, sem ítalskir brúka, þegar þeir vilja láta kenna í brjósti um sig. Tollheimtumannaforinginn viknaði líka við þetta, gerði þeim einhver fjárútlát og kvað það hinn vægasta úrskurð, er hann gæti lagt á í þessu máli (»*Questo e il mitissimo arbitrio che possiamo fare*«); þeir létu sér þetta lynda og þó með nauðung og með því var okkur gefið fararleyfi.

Suður frá Fondi liggur leiðin upp í móti og verður að fara yfir fjallhrygg nokkurn, ekki allháan, er liggur austan frá meginfjallkeðjunni, er maður hefir til vinstri handar upp frá veginum, og skagar hann langt vestur í sjó, en sunnan undir honum er flóinn við Gaëta, sem sjá má á landa-afmáluninni, að gerir vík austan í landið, næst fyrir ofan flóann við Napoli. Frá Fondi til Mola er svo sem hálf þingmannaleið; á miðri leiðinni, eða svo sem efst á hryggnum er *Itri*, lítið þorpkorn; er þetta bygðarlag helzt illa ræmt vegna rána þeirra, sem hér hafa orðið af fjallabúum að austan; sló hér yfir okkur þoku, svo lítið sá frá sér. Fer nú að sækja suður í móti, og vissum við ekki fyr til en við vorum komnir yfir nesið eða fram á sjávarbakkann við Mola (*Formiæ*); var þá létt upp þokunni og var þetta eitt af þeim augnablikum, sem gaf [ástæðu] til að verða frá sér numinn af fegurðinni, sem fyrir augun bar. Við stigum af vagninum í einhverjum hinum fegursta aldingarði, — citrónu- og guleplaskógur, myrtusviður og lárviður og ilmandi glæsilegustu jurtir, hvað innan um annað, bar fyrir hvert

sem litið var. Vertshúsið var líkara konungshöll en gestaherbergi. Fyrir neðan fætur okkar var sjórinn eins og spegill til að líta, og var niður til hans hátt nokkuð og bratt, en allur flóinn blasti rétt á móti, og fyrir sunnan hann gaf að líta álengdar Vesúvíus eldfjallið, í allri hátign sinni, fjöllin umhverfis Neapels-flóann og eyjarnar, er liggja vestur þaðan út með sjónum vestan vert, eður til hægri handar við nesið, sem við höfum yfirfarið og fer það lækkandi eftir sem vestar dregur, og niður við Gaëta, hvar kastali er byggður upp á kletti nokkrum. Til vinstri handar eður fyrir norðan okkur og austan er meginfjallið, að neðan til með indælustu hlíðum niður til sjávar, austur og inn með flóanum; eru hlíðar þessar þaktar víngörðum og aldintrjám. Sólin var farin að lækka svo skugga bar á hér og hvar um fjöllin og varð af því afbreytingin enn meiri. Hér er einhver mesta veðurblíða og afdrep fyrir norðanvindunum; er því jörðin sífelt eins, á vetrum og sumrum ífærð sínum fegursta skrúðbúningi.

Við stóðum hér við tímakorn og skemtum okkur með því að litast um í fegurð þessari. Er herbergi þetta og aldingarður, sem nefnist »*Villa di Cicerone*«, kent við Ciceró, hinn mikla speking og mælskumann Rómverja, sem mælt er, [að] hafi átt hér lystigarð og verið hér myrtur; er það fyrir utan aðalþorpið, sem er austar inn með sjónum og vegurinn liggur um þegar haldið er áfram. Aldingarðsmaðurinn, viðfeldinn unglingur, taldist vera rómverskur, og mátti skilja, að honum þótti sæmd í; verða menn þess oft varir í Mið-Ítalíu, enda hafa Napólskir sérlega ilt orð á sér út í frá, og þykir því fáum mikið til koma að telja sig í ætt við þá. Hann gerði sér ánægju af að leiða okkur um garð sinn og sýna okkur þær jurtirnar og trén, sem honum þótti mest til koma, og fylti vasa okkar með guleplum (oranger), sem hann tók af trjánum og voru nú fyrst komin að því að vera fullþroskuð frá því sumrinu áður; svo langan tíma þarf þessi undurfagri ávöxtur til að spretta, að honum veitir ekki af vetrinum með, og verður því ekki stundaður nema þar sem enginn vetur kemur; er hann líka undir uppskeruna orðinn svo viðkvæmur, að hann má ekki við frosti. Ein frostnótt á útmánuðunum getur því máske öðru eins tjóni valdið í þessum sælu löndum, eins og hjá okkur ef til vill þriggja mánaða harðindi, svo menn eiga hér ekki öllu minna undir veðráttunni og vetrarfari en við, þó með öðrum hætti sé.

Nú var haldið áfram ferðinni og liggur leiðin fyrir neðan fjallshlíðarnar austur og suður með sjónum; fegurðin er jafnan hin

sama, nema hvað víðsýnið verður minna, eftir því sem vegurinn liggur neðar. Fjöllin til vinstri handar fara og að lækka og ganga undan, og taka þá við og blasa móti frjósamir hálsar og flatir. Héðan voru tekin í fornöld »falerisku« vínin, sem Hóratíus og aðrir gerðu svo mikið orð á. Nálægt veginum eru hér leifar af stað nokkrum frá Rómverjaöldum er hét *Minturnæ*, og höfðum við þar litla hríð töf hjá sjónarhrings- (amphitheater-) tótt einni, sem mikið toldi uppi af. Eru þar umhverfis sléttir vellir og frjósamir og fer þar í grend lítil á, fyrrum kölluð *Liris* (sbr. »Líris á sú ein«, Hor. 1.31) en heitir nú Garigliano. Hér kvað það og hafa verið, að Maríus, sem lá í feninu og hafði ekkert að bera fyrir sig, ávarpaði dátann, er Súlla hafði gert út til höfuðs honum, með svo hrikalegri raust, hvort hann vildi voga sér að leggja hendur á Cajus Maríus, að hinn lét höndur fallast og kaus heldur að hverfa frá. Þegar kemur inn fyrir flóabotninn fer landið aftur að leggjast meira vestur á við og lengra út til sjávar, en vegurinn liggur beint áfram og fjarlægist sjónum smátt og smátt og fer þá bygðin heldur hækkandi með öldum og mishæðum. Kvöldið var fagurt eins og dagurinn hafði verið og héldum við áfram fram eftir nóttunni í tunglsljósinu, þar til við komumst í áfangastað. Er það þorp lítið eða nokkur hús við veginn og er kallað St. Agathe. Vorum við þar um nóttina í bezta gengi, en að morgni var aftur farið á stað strax með dögun.

Var það pálmasunnudagur 31. marz [1833]. Þessi dagurinn var eins fagur og blíður og hinir, og þeim mun skemtlegri, að eg hafði nú von um að komast að kveldi til hinnar miklu höfuðborgar, sem ferðinni var heitið til. Vegurinn liggur fyrst yfir hálsa nokkra ekki alllága, sem ná gagngert vestur til sjávar. Þegar kemur suður fyrir þá, er slétta mikil, og nær hún suður að Capúa, og þaðan enda alla leið suður til Napoli, vestur að sjó og austur að fjöllum[1]). Í austri sér maður altaf til Appennínafjalla og í suðri fer Vesúvíus smátt og smátt hækkandi, eftir því sem nær dregur, og vestur þaðan hæðirnar, er liggja vestur af Napoli í sjó út. Þó er altaf víðsýni lítið, af því landið liggur lágt og vegur-

---

[1]) Hér fer á eftir í handritinu dálítill kafli innan sviga, sem höf. hefir að líkindum ætlast til að félli burt, en gleymt að strika yfir hann. En efni þessa kafla kemur alt seinna í ferðasögunni nærfelt með sömu orðum, og er því kaflanum slept hér.

inn í sífellu er svo sem innibyrgður af fíkjutrjám, olíuviði og margskonar aldintrjám, víngörðum og öðru því fegursta, sem drottinn lætur jörðina framleiða, sjálfkrafa eður fyrirhafnarlítið, þar sem svo að kalla er sífelt vor.

Um hádegisbilið komum við til *Capúa.* Þar er slétt umhverfis, en fjöllin skamt austur þaðan. Bær þessi er hvorki stór né vel bygður og fátt er þar aðgætnisvert; má hann því muna sína aðra, er hann í fornöld var einhver mesti staður Ítalíu, kannske eins voldugur og Rómaborg og jafnvel eldri. Er hann helzt kunnur fyrir oflæti sitt og vellystingar, og kvað svo mikið að því, að dátar Hannibals, sem hvorki kuldinn, ófærðin á Alpafjöllum né vopn Rómverja gátu unnið á, týndu karlmensku sinni meðan þeir áttu hér viðstöðu, lögðust í sællífi og óskírlífi og báru þaðan af lægri hluta í stríðinu við Rómverja, sem og svo urðu fyrstir til að ráðast að borg þessari, en seinna varð hún fyrir árásum Norðmanna og Serkja og annara þeirra þjóða, sem á miðöldum léku Ítalíu svo illa út. Gamla borgin var svo sem einnar stundar göngu þaðan sem Capúa er nú, og fór eg á meðan við var staðið að leita upp tóttabrotin eftir hana, en þeirra sér fáar menjar, að undanteknum sjónarhring einum, sem enn er að miklum hluta uppi standandi. Sér lengst eitthvað eftir af þess konar byggingum, hvar borgir hafa verið í fornöld, sem nú eru komnar í eyði af því að mest hefir að þeim kveðið. Sjónhringurinn í Capúa hefir til að líta verið engu minni en sá í Róm, og alt miðbikið svo til búið með rásum undir jörðinni, að í skynding mætti hleypa vatni og fleyta þar yfir skipum.

Þegar eg kom til baka, var vagninn ferðbúinn. Svo sem á miðri leið héðan til Napoli, er *Aversa,* lítill bær, hvar við höfðum skamma dvöl meðan okkur var fært nokkuð af góðu víni út í vagninn, enda var okkur ekki rótt á meðan fyrir skrílnum, sem þyrptist í kringum okkur til að betla og troða upp á okkur þurkuðum fíkjum, sem dregnar voru í kippum upp á tog eða spýtu, og gerðu menn sig harðánægða með 1 bajocco fyrir kippuna, þó vega mundi svo sem hálfa mörk. Frá Aversa er enn slétt suður eftir nokkuð, og sér lítið frá sér fyrir aldintrjám beggja vegna vegarins, eru þau hér í strjálum röðum um slétturnar, en víngarðar alt millibilið, og eru taugarnar úr vínviðinum, sem vínberin hanga á, teingslaðar við greinar aldintrjánna, flækist svo hvað um annað eins og netverk til að líta. — En bráðum fer nú til hægri handar að brydda á mishæðum nokkrum og liggur vegurinn

yfir drögin austur af þeim og veit [maður] nú ekki fyrri til en fer að sækja niður í móti og sér maður þá í einu út yfir sjóinn, yfir borgina fyrir neðan sig vestur með holtinu, sunnan í því, niður að sjó, og norðan megin við flóann, en austanvert og rétt inn af flóanum, fyrir miðju hans, er Vesúvíus, og á bak við hann sunnanvert kemur fjallhryggur að austan frá meginfjöllunum og skagar snarbrattur vestur í sjó sunnanvert við flóann, og út af odda hans liggur eyjan *Caprí*.

Veginum veitir nú niður eftir og vestur á við, sunnan í miðju holtinu og ofanhalds eður á bak við bæinn, svo að til hægri handar eru brekkur nokkrar og holt, en fyrir neðan og austan megin til vinstri handar lægra mikið, þar til Vesúvíus og hraunin, sem flotið hafa úr honum, taka við. Á allar hliðar er, að kalla má, einlæg húsaþyrping innan um aldingarðana, svo að óglögt markar fyrir hvar borgin tekur við; þó eru meðallagi vandaðir grjótveggir umhverfis hana og þegar að þeim kemur má segja, að komið sé til *Napoli*, og þá um leið takmarki reisunnar náð.

Þegar kemur inu fyrir [borgar]hliðið fara húsin að verða áfastari, en aldingarðarnir hætta og kemur þá brátt í aðalstræti borgarinnar, Tóledó-strætið, sem fer eftir endilangri borginni og nær fram að sjó. Er það geysilangt og breitt og hjá því beggja vegna eru flestar þær byggingar, er helzt kveður að í borginni. Við ókum langt niður eftir strætinu; voru menn flestir þá á gangi, er komið var undir það, að hringt yrði til kvöldtíða, enda hafði eg aldrei séð annan eins fólksgrúa saman kominn og lá við eg yrði forviða. Strax og eg kom niður af vagninum, fóru Lazzarónarnir að sviftast á um ferðatösku mína, og þaut einn með hana á burt og bað mig fylgja sér, er hann kvaðst mundu vísa mér á gott herbergi. Fór hann með mig langar leiðir og marga króka, og leizt mér ekki á samastaðinn, sem hann vildi, [að] eg tæki. En sem eg að lyktum hótaði honum illu, ef hann væri að flæma mig þetta lengur, varð hann óvenju lúpulegur. Loks kom eg inn á einn stað, hvar mér leizt bezt á og tók eg mér þar vist. Átti þar húsum að ráða ekkja nokkur spönsk og systir hennar; voru þær vel til mín og var eg til húsa hjá þeim meðan eg að þessu sinni dvaldi í borginni[1]).

---

[1]) Dvöl Tómasar í Neapel var í þetta sinn nokkuð á þriðju viku til 16. apríl. Þá leggur hann á stað í austurför sína til Grikklands, Litluasíu og Tyrklands og kemur ekki aftur til Neapel fyr en 25. ágúst um sumarið.

Eftir að eg var búinn að koma þessu í lag, gekk eg út um kveldið að skoðast um og vildi þá svo heppilega til, að eg innan um fólksgrúann rak mig á eina manninn, sem eg átti von á að þekkja í Napoli, og kominn var þangað fyrir nokkrum dögum frá Róm, herra candidatus Bindesböll[1]) úr Kaupmannahöfn, og hafði eg bæði hér og endrarnær, er fundum okkar bar saman á ferðinni, gagn og ánægju af hans viðkynningu. Vorum við samferða fram eftir kvöldinu, fengum okkur að síðustu kvöldverð saman og mæltum okkur mót til að skoðast um betur næstu daga, og fór svo hvor heim til sinna híbýla.

Napoli er allra borga mest á Ítalíu og ríkust að fé og mannafla; teljast í hinni eitthvað 358,000 innbúar, þar á meðal alténd 60,000 Lazzarónar. Þykir sumum sem borg þessi að fegurðinni til, þegar á alt er litið, landslagið umhverfis, loftslagið og bæjarstæðið og hversu hér er hýst, trautt eigi sinn líka í heimi, og vissulega er það aðdáanlegt og eftirtektarvert, hversu þessi staður hefir að kalla alt það til að bera í einu, sem menn helzt gangast fyrir og láta sér finnast um, hvort sem heldur litið er til náttúrunnar dásemda eður þess sem komið er undir að mannlegri tilstuðlun.

Á landslagið umhverfis Napoli hefir verið vikið nokkuð og skrúða þann, sem jörðin er færð í árið um kring; það verður aldrei ofsögum af því sagt, aldrei með orðum útskýrt eins og verðugt er, hvað náttúran hefir farið vel með borg þessa; það er eins og hún hafi kostað upp á hana öllu því bezta, fegursta og hátignarlegasta, sem hún á til. Alt hvað skáldin hafa sungið um goðalundanna fegurð og indæli eður ódáinsakur, er hér orðið orð og að sönnu, og yfir hálsa þessa og flatir horfði Virgilíus, þegar hann var að lýsa Elysiumvellinum, sælustað hinna góðu, og [Tartarus] samastað hinna ófarsælu í 6. bók af Æneasardrápu. Hér er sífelt vor, blómi jarðarinnar hverfur aldrei; ein jurtin lifnar eða blómgast, þegar önnur fölnar; á öllum ársins tímum eru hinir dýrmætustu ávextir í köstum til sölu um torgin og margar þúsundir manna eiga ekkert húsaskjól, því kuldinn nær hingað ekki og sjógolan dregur svo úr hitanum, að vel er viðunandi. Veðurblíðan er frábær og himininn, sem skýin sjaldan byrgja, ífærður sama indæla blámanum, sem eykur svo mjög á fegurðina í Ítalíu. Napoli liggur, eins og áður er á vikið, austan í og sunnan í fjallás eður holti og nær niður á

[1]) *Severin Cl. W. Bindesböll* varð seinna biskup fyrst yfir Álaborgarstifti, síðan yfir Lálands- og Falstursstifti († 1871).

sjávarbakkann; er undirlendið meira að austan til og standa þar fremstu húsin á nokkurs konar malarkambi fram við sjóinn og sléttri flöt fyrir ofan hann, en að vestan til eru húsin, að undanteknum þeim, sem næst eru sjónum, í brattri brekku, svo hvert tekur við upp af öðru, en fyrir ofan þau og efst uppi á holtinu, er kastali; fer grein úr holtinu aflíðandi suður í sjó í hrygg nokkrum gegnum staðinn vestan vert og skagar þar nokkuð í sjó út, og stendur þar úti í sjónum annar meginkastalinn; en á þeirri víkinni, sem fyrir austan er aðalhluta bæjarins, er herskipalegan. Þar upp af eru útbúnaðarhús þeirra og upp þaðan konungsgarðurinn hjá torgi miklu. Þar fyrir austan er höfnin, og halda að henni tveir steinveggir, sem hlaðnir eru langt út í sjó til að taka við bárunum, sem að utan koma, þá vindur stendur inn flóann. Geta hér komið kræfar öldur í útsynningsveðrum og mæðir þá mest á kastalanum, sem utast og vestast er. Þó verður enn meira af brimum í þeirri víkinni, sem fyrir vestan kastalann er; er þar sandur út með sjónum og mjótt undirlendi milli brekkunnar og sjávarins. Hingað nær vesturendi staðarins, sem að vísu er áfastur við meginstaðinn, en sést þó ekki þaðan af því hrygginn, sem suður af holtinu gengur út í sjó, ber á milli, þó að vísu sé hann allur húsum þakinn. Þessi vesturendi borgarinnar er langfegurstur, því með endilöngum sjávarbakkanum, fyrir ofan flæðarmál, er einhver indælasti lystigarður (*Villa reale*), en fyrir ofan hann, vestur með holtinu, tvær beinar húsaraðir, sem mjög hefir verið til vandað. Þá tekur brekkan við alskrýdd aldingörðum og lystihúsum, hvaðan sjá má yfir öll nærliggjandi héruð, og skagar fjallás þessi þegar undirlendinu sleppir, fyrir vestan víkina á sjó út; fyrir vestan það er aftur stór vík, sem nær vestur að nesinu við Misene, sem lengst nær vestur í sjó norðanmegin við Napoli-flóann, og taka þá við eyjarnar *Procida* og *Ischia*. Við þessa vík voru fyrrum borgirnar *Misenum* og *Bajæ*, en austar *Pazzoli* (Puteoli) sunnan til. Fyrir norðan var *Cumæ* á utanverðu nesinu, vestur við sjóinn og eru um alt þetta svæði miklar og merkar leifar eftir borgir þessar, en fyrir austan og ofan, þá lengra dregur frá sjónum, eru hálfgildis fjöll, sem áföst eru við hálsana fyrir norðan Napoli. Jarðeldar og jarðskjálftar hafa velt öllu þessu svo um, að fjöll eru komin þar sem áður vorur sléttur, og stöðuvötn þar sem áður voru hæðir; en alt er land þetta fagurt mjög og yfrið frjósamt. Þegar því sleppir taka við fyrir norðan og austan slétturnar, sem áður hefir lýst verið og sem ná til Capúa og austur að Appennínafjöllum og í

landnorður frá Napoli suður að Vesúvíus; eru þetta hinir nafnfrægu Sæluvellir (*Campania felice*), sem hafa að kalla öll jarðnesk gæði til að bera, svo að trauðla finst annar blettur á jarðarhnettinum, sem við þennan jafnist að landgæðum og frjósemi.

Þannig hagar landi fyrir vestan og norðan Napoli, en í austri þaðan er einstakt á sléttunni eldfjallið *Vesúvíus*, og er úr borginni til fjallsrótanna svo sem vegarstika, en meira en helmingi lengra upp á það. Það er nokkuð lægra en Hekla og í lögun áþekt og öll eldfjöll, ávalt að ofan með eldvörpu í kollinn, bratt nokkuð niður til miðs, en þaðan af aflíðandi til allra hliða, hvar hrauneðjan og vikurinn hefir staðar numið. Kringum alt fjallið eru nú fagrar bygðir, og vaxa langt upp eftir því [ber, sem af sér gefa] hin ágætustu vín. Sunnanvert við það lá forðum Pompeji, en vestanvert og á sjávarbakkanum Hercúlanum; liggur þar nú hraun yfir og er nú bygt ofan á hraunleðjunni, hvar borgin var undir, og slitnar ei húsarunan með sjónum þaðan til Napoliborgar. Fyrir sunnan Vesúvíus gengur brattur fjallás austan úr Appennínafjöllum vestur í sjó; gerir hann aðskilnað milli Napoli-flóans og Salerno-flóans, sem fyrir sunnan er; norðan undir fjallásnum, skamt í útsuður frá Vesúvíus og nálægt Pompeji, er borg, sem heitir *Castellamare*, þar sem Stabiæ var forðum, en vestur og upp á hæsta hryggnum þorpið *Sorrento*. Fjallásinn er brattur fyrir vesturenda og tekur þá við eyjan *Capri*. Er hún á að gezka í hádegisstað frá Napoli, en vestur þaðan og til þess framundir í miðaftanstað nemur flóinn eður hafið við sjóndeildarhringinn.

Eg vona til, að menn af þessari lýsingu geti gert sér nokkra ímyndan um það, hvernig landslagi hagar umhverfis Napoli. Fegurðin er aðdáanleg, hvert sem litið er, en til þess stoðar skraut jarðarinnar og veðurblíðan ekki hvað minst. Landið er að kalla alt húsum þakið, ýmist til prýðis, ánægju eða gagns, og trauðla finst annarsstaðar þvílíkt þéttbýli. Eldfjallið er til ógnunar og þær byltingar, sem jarðeldarnir hafa til leiðar komið, gera héruð þessi enn fýsilegri og eftirtektaverðari fyrir hvern þann, sem ann skoðun náttúrunnar, og þeim sem fræðast vill um fornaldirnar, getur ekkert verið betur að skapi, en að líta svo margar menjar þeirra, sem hér bera fyrir augu, er jafnvel heilar borgir, sem týndar hafa verið fram undir 2000 ár, koma upp úr jörðunni. Í öllu þessu tilliti á Napoli ekki maka sinn í heimi. Minna mun aftur flestum þykja í borg þessa varið að því leyti sem til þeirra nær, sem i henni búa, og fáir ætla eg mundu gera sér krók til Napoli, eður

hafa elju á að dvelja þar lengi, ef fyrir því einu ágæti væri að gangast, sem af þeim stendur. Það er landslagið umhverfis borgina, fegurðin, hvar sem litið er frá sér, og landgæðin, sem helzt mælir fram með henni. Sjálf fanst mér hún, að meginhlutanum til, hvorki fögur né viðkunnanleg eður skemtileg. Húsin eru allvel bygð og jafnaðarlega með 4—5 loftum, en víða er óhreinlega um þau gengið; strætin eru oftast mikið þröng og heldur óþokkaleg að undanskildu Tóledó-strætinu. Það liggur suður og vestur með endilangri brekkunni neðarlega og neðan við torgið andspænis kongsgarðinum niður undir sjó og og skiftir borginni í tvo hluta. Er annar hlutinn fyrir austan hana á sléttunum og er sá meiri; hinn er fyrir vestan upp í holtinu; eru hér strætin svo í hallanda, að óvíða verður komið vagni, og liggja þau oftast reglulega út frá Tóledó-strætinu upp eftir brekkunni, eða langs utan í brekkunni jafnsíðis því. Sér óvíða á strætunum langt frá sér, en því fegurra er í húsunum á efstu loftunum á þá hliðina, sem veit undan brekkunni, eður upp á þökunum, sem oftast eru flöt og löguð svo, að á þeim verði gengið. Enda sumstaðar liggja strætin hvert yfir öðru, svo að þeir sem neðar ganga, sjá vegina eins og brýr allar götur fyrir ofan sig í loftinu, og fara menn þar eins og neðan undir á hestum og akfærum. Af þessu verður borgin á mörgum stöðum heldur óslétt í brúnina til að líta, og á maður ekki gott með að fella sig við það fyrst í stað, er hann hefir vanist borgum, sem reistar eru á sléttlendi; torg og stræti er alt óreglulegt niðri í borginni, en maður víðast innibyrgður og sér lítið frá sér, og gætir þar fegurðarinnar lítið.

Í Napoli eru fá hús, sem mikið kveður að, eður taki fram því algenga, og varla er önnur borg á Ítalíu, hvar kirkjurnar bera eins lítið af öðrum húsum að hæð og viðhöfn eins og hér, og eru þær þó að tölu ekki færri en 300 í borginni. Meðal annara opinberra bygginga má helzt geta ráðhússins og dýrgripabúrsins. Hið fyrra er feykistór garður, nýbygður og mjög vandaður; eru þar mörg garðrúm í einum aðalgarði. Þar eru öll stjórnarmálefni um hönd höfð, og ríkisskjölin eru þar til varðveizlu. Dýrgripabúrið er meðal fyrstu húsa til hægri handar, þá kemur inn fyrir borgarhliðið, þá er komið er þjóðveginn frá Róm. Það er mikil höll og hefir þangað verið safnað öllum smíðisgripum, málverkum og gersemum ríkisins, og er það mikill hægðarauki fyrir þá sem hafa skamma dvöl í Napoli, að varla þarf annarsstaðar að leita þessháttar gripa í Napoli-konungs ríki. Öllu, sem fundist eður aflast hefir er safnað

og flutt hingað. Er kjörgripasafn þetta orðið til af mörgum smærri, er dregið hefir verið saman í eitt, enda er höllin opin nokkrar stundir daglega, og hverjum frjálst, sem vill dvelja við, að virða alt þetta fyrir sér, og veitir ei af mörgum dögum til að líta yfir það einu sinni, því síður til að verða því nokkurnveginn kunnugur; er það einhver hin skemtilegasta dægradvöl. Hafa nokkrir tilkveðnir menn, eins og vant er, gætur á, að við engu sé haggað.

Hingað er nú komið alt kjörgripasafnið, sem áður var í Farnese-sloti í Róm, og þar á meðal mörg líkneski frá fornöld. Af líkneskjum þessum er kunnugast Herkúlesar-líkneskið og nautið. Hvorttveggja líkneskið er mikið fyrirferðar og meira að stærð og þyngslum en nokkurt annað marmaralíkneski, sem til er frá fornöld[1]). Herkúles er þar tröllvaxinn (colossal) og [alt að því] þrefalt stærri en menskur maður, tilbúinn úr hvítum marmara; hann er nakinn, heldur kyrru fyrir og styðst við hnútótta kylfu eður barefli, ekki langt, en digurt í annan enda; er þannig vant að einkenna hann löngum. Ætla menn, að sá sem líkneskið hefir tilbúið, vilji leiða kappann fyrir sjónir, þá hann hvíldist eftir eitt af afreksverkum sínum og hann var búinn að ná gulleplunum úr Hesperídanna aldingarði, en stúta drekanum [Ladon], er hafði þau til vöktunar. Er líkneski þetta eftir Glýkón nokkurn frá Aþenuborg, sem var á dögum eitthvað 300 árum fyrir Krists fæðingu, og kvað hann hafa stælt eftir Lysippos steinhöggvara, sem bjó til mörg Herkúlesar-líkneski. Þykir aðdáanlegt hve vel og sannarlega hefir tekist að leiða aflið og karlmenskuna í ljós í vöðvafari og beinalögun líkneskisins. Nautið er líka höggvið út í hvítum marmara; stendur það á kletti, heldur illúðlegt, en tveir menn sinn til hvorrar handar hafa bönd á því og vilja beina því að kvenmanni, sem er fyrir fótum þess, að það troði hana sundur. Plinius náttúrufróði getur þessa myndaklasa, og eru þar með leiddir fyrir sjónir bræðurnir Sethus og Amfion, er fyrirfara þannig Dirke stjúpu sinni til hefndar fyrir það, [að] hún hefði komið sér í mjúkinn við föður þeirra og valdið því, að móður þeirra [Antíópu Nyktevsdóttur] var á burt vísað; er myndarklasi þessi eitthvað tveir faðmar á hæð og framt að því annað eins á lengd, því líkneskin eru öll tröllvaxin. Er hann gjörður á eyjunni Rhodos af steinhöggvurum tveimur, Appollonius og Tauriscus, og hefir þaðan flutzt til Róm. Fær það

---

[1]) Myndir af líkneskjum þessum eru prentaðar í Stolls Goðafræði nr. XXIV og XXX.

mestrar undrunar, hvað feykilega stórt þetta listasmíði er og hvað boli er nautslegur.

En mest hefir þó munað um það, sem fundist hefir í Herculanum og Pompeji, sem áður var geymt í kongsgarðinum í Portici, og er þess vegna gripasafn þetta auðugra en nokkurt annað að öllum heimilisáhöldum, búsgögnum og tilfæringum frá fornöldinni. Hér gefur að líta búskapar og lífernisháttu hinna gömlu Rómverja, hversu þeir hafa hagað öllu utan húss og innan, hvað langt þeir hafa komnir verið í alls konar handiðnum, smíðum og íþróttum. Það er alt eins og maður sé kominn inn í híbýli þeirra eður verksmiðju, en hafi ekki hitt á þá heima, en sé á meðan að tefja tímann með að skoðast um í kofanum; að vísu er hér, meira en skyldi, ruglað hverju innan um annað, og eigi tekið svo til greina, hvaða áhöld ætti saman á einu heimili, eður heyrðu til einni iðnargrein eður handverki. Mér fanst líka mikill söknuður í, er eg var að skoðast um í Pompeji, að alt var flutt burt úr tóttunum, sem lauslegt var til að firrast sandinn, hvað á sinn stað í gripabúrinu heima í borginni. Eg hefði kosið á, að á einhverjum stað hefðu kofarnir verið látnir standa með mannvirkjum, eins og Rómverjar hafa frá þeim gengið með öllu tilheyrandi, og að menn hefðu einasta borið burtu vikrinn og gert að skemdum, sem húsin, einkum að þakinu til, hafa fyrir orðið. Gripunum er í búrinu, eins og reyndar sjálfsagt er, þegar búið er að taka þá úr stöðvum sínum, raðað niður eftir því sem þeir eru skyldir eða líkir að efni og fegurð, til þess hægra sé yfir að líta. Í einni stofunni er þannig t. a. m. alt það sem gert er úr gleri, flöskur, staup og þess háttar; í annari alls konar áhöld, myndir og líkneski úr prinzmetal[1]) en í einni dýrgripir úr gulli og silfri; þá eru í einni búsgögn og verkfæri, sem áþekkust eru að lögun eður samkynja tegundar o. s. frv. Eg legg ekki út í að fara að lýsa hverju sér í lagi, sem hér er samankomið; það yrði mikils til of langt, þó ekki væri nema að eins vikið á hið merkasta. Nefnd manna er til þess sett, að lýsa með ritgjörðum forngripum þessum og útlista þá, strax eftir að eitthvað viðbætist og eru mikil ritverk um þá skráð og margar afmálanir af þeim gerðar. Eru þeir betri en nokkur orð til að leiða í ljós lífernishháttu Rómverja og að útskýra það sem torskildast er víða í ritum þeirra. Fer þá fyrst algerlega að verða gaman að lesa ritgjörðir þeirra, er þess konar hlutir eru við höndina á meðan, að

[1]) Málmblendingur úr kopar og zinki, svipaður gulli á að líta.

skoða og styðjast við. Í búrinu eru eitthvað um 90 stofur með fornmenjum, fágætum gripum og snildarverkum; þar af eru 20 með málverkum frá seinni tímum, 10 með bókum, 14 með leirbrúsum og krukkum frá Etrúríu, ýmislegum fornleifum frá Egiptalandi og margs konar dóti, sem flutzt hafa þangað úr eyjunum í Suðurhöfum. Hitt er mest alt rómverskar og grískar fornmenjar og mest frá Herculanum og Pompeji; eru þar eitthvað 18 stofur, alsettar með myndastólpum og guðalíkneskjum úr marmara, og letursteinum; enn eru 7 með koparmyndum og tilfæringum, og enn margar með ýmislegum áhöldum, borðbúnaði, kvennskrúða og silfri, peningum, útskornum gimsteinum, alls konar vopnum, offurverkfærum, 10 með gömlum málverkum og og veggjamyndum (fresko); fjórar eru með bókströnglum, sem fundist hafa í Herkúlanum. Pappírnum eður blöðunum, sem ritað var á, — því pappírinn, sem nú brúkast, var þá ófundinn, — er vafið upp á trékefli, eins og tíðkað var hjá Rómverjum; hefir takinn og fúinn orðið því að grandi öllu nema því, sem brunnið er til ösku utan á keflunum, og má svo kalla, að eldurinn hafi, þegar hraunið lagðist yfir borgina, orðið því til frelsunar. Má þar af ráða hvílíka varúð þurfi til að rekja þetta niður, svo að ekkert rifni sundur eður fjúki burt, er það varla má við andardrætti, og að ekki er áhlaupaverk að lesa það. Með mikilli kænsku hafa menn þó fundið upp tilfæringar til að að komast frá þessu, sem virðast mætti við fyrsta álit hreinn ógjörningur. Keflið er látið leika milli tveggja uppstandara; verður svo mjakað niður af því eins og þá hleypt er af vef í vefstað, en silkireimar eru á bak við, því til styrktar og stuðnings, sem niður rekst, og sitja menn við að mála upp hverja línu hvað eftir að hún kemur í ljós, og veitir það auðveldara fyrir því, að letrið er ekki nema annars vegar. Með þessu móti hefir tekist að leiða í ljós nokkur fornrit, sem áður voru ókunn, og hafa þau verið látin ganga á prent, en minst af bókströnglum þessum er enn búið að lesa, enda hefir hingað til ekki hitzt neitt, sem sérlega mikið happ þykir í. — — —

---

# Þjóðleikhús.

Eftir Indriða Einarsson.

---

## I.

Þegar hafist er máls á því, að eitthvað sérstakt þurfi að gjöra, sem annaðhvort hefir verið lítið sint, eða enginn hefir sint áður, þá viðra þeir sem vilja ekki sinna málinu það vanalega fram af sér með því að segja, að þess tími sé ekki kominn, að málið sé of fljótt borið upp o. s. frv. Svarið er meinleysislegt, en þýðir eiginlega annað en í orðunum liggur: »Eg er því mótfallinn«, væri oftast réttara, eða, »eg er ekkert farinn að hugsa um það enn þá«, væri líklega enn réttara svar.

Tilgangurinn með línum þessum er að vekja menn til að hugsa um leikhús fyrir landið, eða þjóðleikhús, og jafnframt að gjöra eins konar áætlun um hvað slík stofnun mundi þurfa að kosta.

Fyrsta svarið, sem slík tillaga mun fá, er að enn sé ekki kominn tími til þess. Að hér vanti leikara, þykir ekki líklegt að neinn muni svara, en mótbáran verður líklega heldur sú, að íslenzk leikritasmíð sé ekki komin á það stig, að neitt sérlegt sé gjörandi fyrir leikhús hér á landi. Sé málið skoðað með sanngirni, þá er leikritahöfundur hér á landi alls ekki öfundsverður, eins og enn er komið. Hann sér leikritin sín sjaldan eða aldrei leikin, en það er bezti skólinn, sem hann getur gengið í. Af því sér hann betur en af nokkru öðru hvað hann á að varast, hvað áhorfendunum þóknast bezt, og hvað tekur þá bezt um hjartað. Leikritahöfundur, sem fer þess á mis, á

ákaflega brattan og erfiðan gang upp á fullkomnunarhjallann. Séu ritin hans leikin, þá fær hann litla borgun eða enga; árinu, sem að sjálfsögðu er álitið að gangi til þess að semja fjögra eða fimm þátta leikrit, er fleygt burtu fyrir svo að segja ekki neitt, en hann á í því sammerkt við marga aðra, sem skrifa bækur hér á landi, að hann þarf ekki að kvarta framar en þeir. — Ef leikritin hans eru leikin, þá á hann fyrir keppinauta menn sem eru heimsfrægir, eins og Björnson og Ibsen, og eru sama þjóðernis sem vér, ef þeir yrkja með norsku hólfunum í hjarta og heila. Hann verður að keppa við þýzka, danska og franska snillinga og við alla meistara í leikritakveðskap, nema Sófokles, Shakespere, Shiller, Göethe og Kleist, því þeirra rit hafa ekki verið leikin hér enn þá.

Þeir sem íslenzkur höfundur á að keppa við eru margir hverir beztu höfundarnir í þeirri grein, en svo ann landsfólkið þjóðerni sínu, þjóðsögum og íslenzkri menningu, að hvenær sem einhver getur vakið óminn frá einhverjum streng á þjóðarhörpunni í leikriti, þá steyma allir að, sem komið geta, hundruðum saman til að sjá það, og þá getur höfundurinn kept við hvern útlendan meistara, hvort sem hann er gamall eða nýr, og unnið sér til velvildar í hugum vorra eigin áhorfenda. En ef ísl. höfundur byggir ekki á þjóðernisgrundvellinum, þá stendur hann líkt að vígi og aðrir höfundar.

---

II.

Er nú sá tími kominn hér á landi að búast megi við því, að sú leikritasmíð, sem hér er komin fram, sé annað en fálm í myrkrinu, sem sjálfsagt hætti, þegar vissir menn deyja? Ef því á að svara verður að líta á það, hvenær leikritalistin vaknar hjá þjóðunum. Hún er fjærsta takmark skáldskaparins og efsta rimin í stiganum. Framan af æfinni áttu þjóðirnar ekki þann hæfilegleika til. Leik-

ritaskáldskapurinn verður síðar til en ljóðlist og hetjukvæði eða rímur. Hún er margtþætt list, þar sem flestar aðrar listir eru tvinnaðar saman, hún hrífur tvö skilningarvit í einu, heyrn og sjón. Söngurinn hrífur eyrað, málverkið sjónina, aðrar listir hrífa að eins eitt skilningarvit. Leikritaskáldskapurinn verður ekki til fyr en þjóðin hefir náð töluverðum þroska; þegar menn eru farnir að taka eftir sjálfum sér og öðrum áður en þeir ráðast í stórræðið eða mikilsverðar framkvæmdir. Málið verður að vera orðið þroskað, og liðugt og nýtilegt fyrir rökfimi. Hetjukvæði og ljóðlist verða að hafa skapað það, fágað það og prýtt það, en mælskumaðurinn að hafa gjört það snjalt og tvíeggjað í orðvígum. Fólkið má ekki vera svo fjötrað af venjum, trúarkreddum eða ytra valdi, að það ráði ekki sjálft mestu um það, hvernig æfikjörin verða. Einstaklingurinn verður að vera orðinn eigin lukku eða óláns smiður. Gustav Freytag segir að þannig hafi verið ástatt fyrir Grikkjum 500 árum f. Kr. og að þjóðirnar í Norðurálfu hafi verið komnar á þetta stig, þegar siðabót Lúthers var komin fram, fyrir 1600 eftir Krists fæðingu.

Þegar þessi skilyrði, sem nú voru nefnd, hverfa aftur hjá þjóðunum, þá er leikhúsunum lokað, og leikritakveðskapur og leiklist hverfur af jörðunni. Nálægt 1000 árum e. Kr. var öllum leikhúsum í Norðurálfunni lokað. Kirkjan lét loka þeim, því hún þoldi ekki frjálsar hugsanir við hliðina á sér. Ekkert mátti hugsa né segja, sem kom í bága við hinar kirkjulegu kenningar. Leikhúsið var heiðið að uppruna, og þess vegna djöfulsins handaverk, eða höfðu kanske Kristur og postularnir leikið sjónleiki, eða ort þá? Leikhúsunum var lokað, og blóminu sem vaxið hafði á grískri og rómverskri menningu var fleygt á eldinn.

Líklega hefir fólk saknað leikhúsanna í huganum. Kirkjan hefir séð og fundið til saknaðarins, og breytist sjálf í leikhús að vissu leyti; þar eru söngvar, ræður, prócessíur, skraut og myndir, alt til þess að gleðja augu og eyru. En samt sakna þeirra tíða menn sorgarleiksins,

en í stað þess að leika sorgarleiki Sofoklesar, eða Æskylosar, þá byrja kristnir menn víða um Norðurálfuna að leika einasta sorgarleikinn, sem kirkjan viðurkennir, píningarsögu Krists, og til þeirra leika má álíta að leikhúsin, sem nú eru, eigi uppruna sinn að rekja. Svo kemur »renaissance«-tímabilið, og allar listir endurfæðast, siðabótin leysir böndin af norðurhluta álfunnar. Á Spáni yrkir Lope de Vega 300 leikrit, þegar Spánarveldi stendur í allra hæstum blóma, og á Bretlandi semur Shakspere leikritin, sem aldrei gleymast, árin 1588—1606, eða tuttugu árin næstu, eftir að Raleigh, Drake og stormurinn höfðu gjöreytt flotanum ósigrandi, sem Filippus II. sendi til þess að yfirvinna England, og höfðu lyft þjóðarmeðvitund Engla á hæsta stig.

---

## III

Til þess að gjöra sér í hugarlund hvort hér sé kominn tími til að stofna leikhús, er sjálfsagt að líta á það, hvernig það sem nú hefir verið sagt kemur heim við ástandið hér á landi. Í fornritunum eru til eins konar leikrit; sum Eddukvæðin eru miklu fremur leikrit en hetjuljóð; jeg á við þau kvæði, sem nefnd eru »kviður«. Þær losa auðvitað það sem sagt er út úr þeirri umgjörð sem leiksviðið verður að vera um hvert leikrit nú á dögum. Gylfaginning Snorra Sturlusonar er hálfgjört leikrit, og þar sér maður leiksviðið fyrir sér, þegar það byrjar. Margar af íslenzku sögunum hafa svo sterkan leikblæ yfir frásögninni, að mörgum hlýtur að finnast nokkuð vafasamt, hvort það er saga eða leikrit, sem þeir hafa fyrir sér, þegar þeir lesa suma kaflana. Gísla sögu Súrssonar mætti einkum nefna í þessu tilliti. Leiklöngunin er oft sterk og ofarlega í Íslendingum til forna, eins og þegar Gunnar á Hlíðarenda leikur Kaupahéðin, eða smásveinar eru að leika heima hjá sér menn og atburði,

sem gjörst hafa, og vakið hafa athygli. Á alþingi hinu forna kom heill bær saman á hverju ári, og þar er getið um trúða og leikara, svo líklegast hafa þar verið einhverjir leikir, þótt menn viti ekki nú hvernig þeim hefir verið háttað. Íslenzk menning nú á dögum er þúsund ára gömul, því hvert barn getur lesið fornritin.

En skilyrðin nú á dögum eru það, sem einkum þarf að athuga. Ljóðlistin hefir staðið í blóma í 60—70 ár. Frelsishreyfingin, sem gekk um Norðurálfuna 1830, vakti hér Jónas Hallgrímsson. Endurreisn alþingis, og aðdragandinn að henni — því að morgunroðinn á undan frelsinu er oftast fegurstur — sló ljóma vona og fegurðar yfir alt þjóðlíf vort, og yfir ljóðlist hans. Eftir hann hefir harpan aldrei þagnað, og að jafnaði hefir hún verið slegin með list. Rímur vitum vér allir að hafa verið kveðnar hér öldum saman, en eiginleg hetjukvæði eru ekki til hér á landi nú, nema Örvar-Oddsdrápa Gröndals og Guðrún Ósvífursdóttir eftir Brynjúlf Jónsson frá Minna-Núpi, en því mun víkja svo við, að Íslendingar vakna til heimsmenningarinnar, þegar hetjuljóðin eru útdauða orðin í menningu annara þjóða, eða því sem næst. Aftur hefir skáldsagnalistin verið í miklum blóma hér á landi eftir 1848, eins og í heiminum kringum oss.

1845 hófst alþingi hið nýja, og hefir verið háð síðan annaðhvort ár. Hægt væri að benda á marga menn með mikilli þingmælsku. Landsmenn hafa vanist því að tala á þingi og mannfundum, og málið er að auðgast, og er orðið allauðugt aftur við iðulega notkun þess. Málið er skært og hljómfagurt, og fyrir hvern, sem kann það, er það auðugt og beygjanlegt, og hlýtur að fara vel á leiksviðinu. Frá þess hálfu getur ekkert verið því til fyrirstöðu að hér komi upp góð leikritalist, og leiklist yfir höfuð að tala.

Aðrar listir en þær sem taldar voru, eins og sönglistin, málaralistin, og jafnvel myndasmíði, hafa aldrei staðið hærra en einmitt nú. Tónskáld eru fleiri og betri en nokkru sinni áður, og alt þetta eru listir sem leikhúsið

styðst við. Sé litið á þessar listir yfirleitt, þá finst hverjum, sem athugar allan þennan nýgræðing, að gullöldin sé í nánd, og að hún muni innan skamms setjast að hér í dölunum og við vogana til þess að þrífast og blómgast hér löng vetrarkvöld, meðan norðurljósin spegla sig í voginum, eða glæjum svellabreiðunum í dalnum.

Útlendir mentavinir hafa sýnt fram á það, að miðdepill bókmentalífsins sé alt af að færast norðar í álfunni. Endurfæðingin á bókmentum heimsins byrjaði á Ítalíu og Spáni, settist að í Frakklandi, flutti sig þaðan til Englands. Var lengi í Þýzkalandi, síðan á Rússlandi, er nú í Noregi, en — hvert á miðdepill bókmentalífsins að flytja sig frá Noregi?

En er nú íslenzka þjóðin komin á það stig, að hún geti verið undirstaða undir leikhúsi, leikritasmíð og leiklist? Er einstaklingurinn orðinn svo frjáls, að hann lifi ekki eftir venjulögum, og kreddum, og að hann sé ekki svo háður ytra valdi, að hann ráði of litlu um örlög sín? Sá sem er bundinn andlega af ytra valdi er ekki efni í hetju í alvarlegu leikriti. — Svarið er ekki erfitt. Kenningar kirkjunnar út í yztu æsar hafa fáa áhangendur hér eða því nær enga. Landsmenn hafa verið að losa af sér bönd hins ytra valds síðustu 30 árin; fyrst og fremst ýms kirkjuleg bönd, og fyrir 14 árum stríðasta og skammarlegasta bandið sem til var á frelsi og ákvörðunarrétti hvers einstaks manns — vistarbandið. Öll þessi bönd, sem leyst hafa verið, hafa hamlað mönnum frá að ákvarða sig sjálfir, að vera eigin lukku smiðir, og þess utan hafa verið settar á fót stofnanir, sem vinna í sama tilgangi. Áður en nokkuð af þessu var gjört, sögðu þó ýmsir menn hér á landi, að persónufrelsi manna væri rúmt og í fullum mæli. —

Það var þjóðernistilfinningin hjá Grikkjum eftir Persastyrjaldirnar, sem lét allar listir þeirra blómgast. Hjá Rómverjum og Spánverjum mun það hafa verið ofurveldi ríkisins og þjóðernistilfinningin í sambandi við það, sem lét Plautus og Terentius verða það sem þeir urðu hjá

Rómverjum, og Lope de Vega og aðra síðar hjá Spánverjum. Hjá Englum komu Shakspere og hans samtíðarmenn eftir fullan sigur á þeim ægilegasta óvini, sem England hafði átt til þess tíma. Þeir eru blómstrið á þjóðernstilfinningu Engla í þá daga. Er nokkur slík tilfinning til hér á landi? Án hennar vaxa ekki fegurstu blómin. Á 18. öld vekur Eggert Ólafsson þjóðernistilfinningu landsmanna með kveðskap og ættjarðarkvæðum. Skúli fógeti framkvæmir í verkinu alt, sem ættjarðarást gat unnið í þá daga, þegar alt hér var ytra valdi háð. Þegar þeir eru fallnir í valinn, er Magnús Stephensen konferentsráð — eftir dómi Jóns Sigurðssonar sjálfs — ímynd alls, sem íslenzkt er. Hann er það í 40 ár. 1830 vekur Baldvin Einarsson þjóðina með »Ármanni á alþingi«, þá koma Fjölnismennirnir, og vekja málið upp úr kviksetningu, þá Jón Sigurðsson og Ný Félagsrit, sem vekja Íslendinga til að hugsa um sjálfstæði sitt. 1851 vakna Íslendingar og eru þá þjóð. 1873 finnur þetta þjóðerni að það hefir sál, og vonandi hefir það aldrei gleymt því eftir það.

„Lyft vorri þjóðsál um þúsund ár
upp mót sólu“,

syngur skáldið um það leyti. Allra síðasti votturinn um að þjóðernistilfinningin á landinu sé í fullu fjöri eru samþyktir um land alt um að taka upp íslenzkan fána.

Að þjóðernistilfinningin er til mun engum blandast hugur um. Það vita allir. Að hún er sterk, getur hver maður vitað, sem sér eða heyrir hvað við ber hér á landi, og að hún er ekki komin upp í gær eða í fyrra dag vita allir, sem þekkja viðburðina hèr á fyrri öld. Allar listir og mentir, sem íslenzkir menn iðka, ber hún á herðum sér, og fyrir hennar aðstoð náum vér innan skamms efstu riminni í menningarstiganum, eða fáum þjóðleikhús, og fyr en það er fengið eru Íslendingar ekki orðnir mentaþjóð.

---

IV.

Veikasti þátturinn í málinu eru bæirnir, að þeir eru litlir. Hver höfuðstaður í Norðurálfu hefir leikhús; Reykjavík er einn þeirra og ætti að hafa reglulegt leikhús. Það stoðar ekki að hugsa sér leikhús þar sem leikið er á hverju kvöldi, aðsóknin bannar það, en leikhús sem ætti sig sjálft, og um fram alt ekki er notað til annars en til leika, eða samsöngva. Cettinje, höfuðstaðurinn í Montenegro, hafði fyrir nokkru að eins 30000 íbúa en þar er þó leikhús, sem furstinn styður. Meiningen á Þýzkalandi er smábær, en leikhúsið þar, sem hertoginn styður og heldur uppi, hefir haft áhrif á flest öll leikhús í hinum mentaða heimi.

Reykjavík er lítil, hér eru að eins 10 000 manns í ársbyrjun 1907, en hugsi maður að koma upp leikhúsi þar, þá má ekki miða það við þessi 10 000, sem nú eru. Reykjavík verður ekki lengi bær með þeirri íbúatölu. — 1887 reistu bindindismenn fundahús, og höfðu leikpall í því, þeir þóttust þá hafa bygt leikhús fyrir bæinn sem nægði í 10 ár. Eftir 4 ár varð það of lítið, þá bygði Breiðfjörð sal með leiksviði, er margir héldu að mundi nægja í 20 ár. Þar var leikið í 5 ár, eftir það eiginlega ekki. Handiðnamenn bygðu 1897, og vildu fullnægja öllum kröfum; þar var leiksviðið 16 álnir á breidd innan veggja, og 10 ál. á dýpt, og leiksviðsopið 10 ál. á breidd. Þetta þótti ákaflega rúmgott í byrjuninni, en í nokkur ár hefir verið kvartað þar um algjört rúmleysi, ef leikrit með mörgum persónum eru leikin, og áhorfendaplássið þykir nú og hefir þótt í nokkur ár svo óhæfilega útbúið, að margt fólk vill ekki koma þar. Að bæta áhorfendaplássið er ómögulegt, vegna þess að aðrir en leikhúsið eiga húsið, og sami salurinn er notaður til alls annars, þegar ekki er leikið þar, og alt sem ætti að vera áhorfendunum til þæginda yrði að vera úti á götunni á meðan. Plássið á leiksviðinu er alt of lítið, og herbergin sem leikendurnir eiga að klæða sig í þrem eða fimm sinnum of fá. Nú

sýnist ekki nema tvent fyrir hendi, annað hvort að hætta sjónleikum, eða að byggja leikhús.

Ef hér er bygt leikhús, ætti það að vera nógu sterkt og nógu stórt í 100 ár að minsta kosti, og ætti að vera úr steini. Til þess að vita hve stórt hús bærinn þarf, er nauðsynlegt að hugsa sér hve fljótt hann muni vaxa framvegis, en það sést bezt, ef tekið er eftir því, hvernig hann hefir vaxið á síðustu öld og til þessa dags.

Eftir 1880 var það reiknað út með líkindareikningi, að Reykjavík mundi hafa 5000 íbúa 1907, og 10000 1931. Nú eru hér 10000 manns 1907. Ætti bærinn að vaxa framvegis eins og hann hefir vaxið 1899—1907, eða tvöfaldast á 8 árum, yrðu bæjarbúar:

| | |
|---|---|
| 1915 . . . . . . . . . . | 20000 |
| 1923 . . . . . . . . . . | 40000 |
| 1931 . . . . . . . . . . | 90000 |

En það er ómögulegt, því að til þess þyrfti mestur hluti landsmanna að flytja sig hingað. Á öldinni sem leið og til 1906 tvöfaldast íbúatalan á hverju 21 ári, eftir því ættu íbúar Reykjavíkur að verða:

| | |
|---|---|
| 1928 . . . . . . . . . . | 20000 |
| 1949 . . . . . . . . . . | 40000 |
| 1970 . . . . . . . . . . | 80000 |

og 50000 manns nálægt 1960.

Þriðji útreikningurinn, sem þykir líklegastur, er að gjöra ráð fyrir, að því sem næst 500 manns flytji sig til bæjarins árlega annarsstaðar frá, og að bærinn vaxi árlega um 10 af þúsundi fyrir það að fleiri fæðist hér en deyi árlega. Þá ætti framtíð Reykjavíkur að vera þessi:

| | |
|---|---|
| 1907 . . . . . . . . | 10000 íbúa |
| 1923 . . . . . . . . | 20000 — |
| 1936 . . . . . . . . | 30000 — |
| 1948 . . . . . . . . | 40000 — |
| 1959 . . . . . . . . | 50000 — |
| 1968 . . . . . . . . | 60000 — |
| 1977 . . . . . . . . | 70000 — |
| 1985 . . . . . . . . | 80000 — |

og hér um bil 100000 árið 2000. Við reikninginn er það að athuga, að bærinn vex of seint þegar sækir á öldina, en líklegast heldur fljótt framan af. Eftir því sem landsmönnum fjölgar meira yfirleitt, eftir því flytja fleiri menn sig í kaupstaði og bæi, ef hér fer því fram, sem á sér stað í öðrum löndum, að sveitafólkinu fjölgi ekki. En svo hefir verið á Íslandi frá 1801—1901.

Hér er verið að gjöra ráð fyrir leikhúsi handa höfuðstaðnum, en sá bær verður líklegast bær með 50,000 manns eftir 50 ár, og með 100,000 eftir 100 ár, og það alt þótt hér finnist ekkert gull, og þó hér séu engir námar.

---

## V.

Leikhús, sem tæki 500 áhorfendur, ætti að nægja Reykjavík í 100 ár, eða jafnvel lengur. Fyrstu árin væri það svo stórt, að þar væri ekki leikið oftar en nú er gert, eða um 40 sinnum á ári. En þegar Reykvíkingar væru orðnir 15000 manns, yrði að líkindum leikið þar þrisvar á hverjum tveimur vikum; þegar þeir yrðu 20000 yrði líklega að leika tvisvar í viku, og leikkvöldunum fjölgaði eftir því sem bærinn yxi. Þegar Reykvíkingar væru orðnir nálægt 50000 yrði líklega leikið hér á hverju kvöldi allan veturinn. Þegar bærinn væri orðinn of stór fyrir leikhús, sem tæki 500 áhorfendur, mætti víst byggja ofan á áhorfendasalinn fyrir pall með liðugum 100 sætum, svo leikhúsið tæki liðug 600 manns, og svo mætti lengja leiktímann, byrja fyr og hætta seinna að vorinu, og með því móti yrði leikhúsið væntanlega nógu stórt, þótt 100000 manns ættu heima í bænum.

Leikhús, sem tæki 500 áhorfendur og hefði nægilega stórt leiksvið, mundi kosta eitthvað nálægt því, sem eftirfarandi áætlun gjörir ráð fyrir. Húsið verður að vera úr steini. Áhorfendaplássið 24 ál. á breidd og 30 ál. á lengd og 12 á hæð. Leiksviðið ætti að vera 24

ál. innan veggja að þvermáli, $20^1/_2$ á dýpt með svæðinu fyrir hljóðfæramennina. Leiksviðið frá gólfi og upp að lofti yrði að vera 20 ál. á hæð, en utan við það báðum megin þarf 8 ál. breiðar byggingar fyrir leiktjöld, húsbúnað handa leiksviðinu og klæðaherbergi handa leikendum.

| | | | |
|---|---|---|---|
| 1. | Veggir, gólf og þak á þessu húsi hefir byggingameistari áætlað að kosti . . . . . . . . | kr. | 80000,00 |
| 2. | Hitavél og hitaleiðsla . . . . . . | — | 20000,00 |
| 3. | Grunnur kostaði (nú um þetta leyti) . | — | 16000,00 |
| 4. | Rafmagnsljós og öll áhöld til þess . . | — | 25000,00 |
| 5. | Sæti handa áhorfendunum . . . . . | — | 3000,00 |
| 6. | Útbúningur á leiksviðinu sjálfu, vélar, húsbúnaður handa því tjöld o. fl. . . | — | 20000,00 |
| | Samtals | kr. | 16400,000 |

1.—3. liðurinn í áætluninni er gjörður af byggingameistara hér í bænum. 4. liðurinn er tekinn eftir áætlun Halldórs Guðmundssonar, sem hefir sett upp ljósstöðina í Hafnarfirði. og er manna kunnugastur því máli. Það er gjört ráð fyrir því, að leikhúsið hafi ljósstöð fyrir sig, því það þarf bæði að fá ljós og hreyfiafl handa vélunum á leiksviðinu, en þarf ekki ljós fyrst framan af nema 90 kvöld, eða sem því svarar. Og þó hér kæmi upp ljósstöð í bænum, er óvíst að hún gæti haft viðskifti við svo óstöðugan kaupanda sem leikhúsið væri bæði með ljós og hreyfiafl, enda hafa flest leikhús rafljóss stöð og hreyfiafls út af fyrir sig, þótt þau þurfi að nota hvorttveggja á hverju kvöldi. Vildi ljósstöð í bænum eiga kaup við leikhúsið, og það yrði ódýrara fyrir það, væri sjálfsagt að taka því, ef hreyfiafl fengist með því.

Útbúningurinn á leiksviðinu mun þykja mikill og dýr, en áætlunin er gjörð fyrir leiksvið með nýtízku útbúningi, sem getur snúist um miðdepil sinn, svo að sú röndin, sem snýr burtu frá áhorfendunum, t. d. þegar byrjað er, geti eftir nokkur augnablik snúið að þeim, og flutt með sér stofu, sem hefir verið sett þar upp og

búin stofugögnum, án þess að áhorfendurnir vissu neitt af því. Leiksviðsbreytingar, sem nú taka 30 mínútur, þyrftu þá ekki að vara lengur en 30 sekúndur. Útbúningurinn á leiksviðinu er dýr, en svo þarf minni mannafla til þess að setja upp leiktjöld og leikáhöld, svo fyrirkomulagið borgar sig vel í reyndinni.

---

## VI.

Árlegur kostnaður af slíku húsi væri allmikill. Hér er sett svo, að helmingurinn af húsinu væri tekinn til láns til 41 árs, en hinn helmingurinn til 28 ára, en vextirnir væru 5% af báðum lánunum, það væri alls

| | | |
|---|---|---|
| | kr. | 10760,00 |
| Brunabótaábyrgð væri nálægt . . . . . | — | 400,00 |
| Ljósgæzla um árið, 90 kvöld framan af . . | — | 450,00 |
| Hitun á húsinu í 90 kvöld . . . . . . | — | 650,00 |
| Viðhald 1% af húsinu sem er lágt í lagt, þegar innanstokksmunirnir eru með . | — | 1650,00 |
| Samtals | kr. | 13910,00 |

sem væri kostnaður við húsið eingöngu. Ef viðlagasjóður lánaði 100000 kr. til byggingarinnar og tæki t. d. 4% í vöxtu, og 1% í afborgun, væru 1000 kr. af þessari upphæð sparaðar árlega; gæti hann látið sér nægja $2^1/_2$ % í vöxtu, og 1% í afborgun, væru 2500 kr. sparaðar árlega fyrir leikhúsið. Væri upphæðin, sem lánuð væri hærri, væri enn meira sparað.

En svo væri ekki unt að komast hjá að borga einhverja stjórn á þessu leikhúsi. Leikendur, sem hafa mikið að gjöra, gætu ekki stjórnað því tímans vegna, nema þeir hættu að leika, og þeir þyrftu þá alveg eins að fá tíma sinn og fyrirhöfn borgaða. Enn fremur væri ómögulegt að halda uppi leikhúsi, og stöðugum sjónleikum í því, nema það væri unt að borga 8—10 manns (3—4 konum og 5—7 mönnum) svo háa upphæð árlega, að leikhúsið gæti haldið þeim lengi með þessari föstu borg-

að maðurinn hefði meðvitund um að hann væri að flytja erindi, er væri honum um megn. — Þórður virti fyrir sér fólkið í kirkjunni og gaf ræðunni lítinn gaum. En skyndilega var sem hann raknaði við, að presturinn hafði yfir ritningarorðin: »Svo elskaði guð heiminn, að hann gaf sinn eingetinn son, til þess að hver, sem á hann trúir, glatist ekki, heldur hafi eilíft líf«. Eftir þetta fylgdi Þórður ræðunni með athygli og var kjarni hennar útlistun þess, hvílíkt fagnaðarefni það væri mönnunum, að guð hefði lagt sinn eigin son í sölurnar, fyrir velferð sálna þeirra.

»Svo elskaði guð heiminn«. — Þessi orð ómuðu nú í huga Þórðar í sífellu. Þá höfðu þau lítil áhrif á tilfinningar hans; en hugsunaraflið vaknaði og hann fór að bera saman æsku sína og nútíðina. — Þegar messunni var lokið, bjóst hann þegar til heimferðar. En nú hafði brugðið svo við, að löngun hans til að fara einförum var horfin, og sömuleiðis sú óbeitartilfinning, sem hann hafði svo oft gagnvart öðrum, í seinni tíð. Þvert á móti fann hann nú til þrár, til að tala við einhverja og skifta við þá skoðunum; og þetta leiddi til þess, að hann varð samferða, heimleiðis, Grími á Barði og barnakennara hans, Jóni Jónssyni, ungum gagnfræðanema.

Þeir gengu þegjandi um hríð og þó ekki lengi, áður Þórður hóf máls á því, hvernig þeim líkaði ræða prestsins. Gagnfræðingurinn svaraði og hafði ýmislegt við ræðuna að athuga. En þó beindi hann máli sínu meira að kristindóminum yfirleitt, einkum hinni kristnu guðfræði, sem honum þótti hvíla á veikum grundvelli, að sumu leyti á munnmælum og að sumu leyti á tómum heilaspuna. Þórður hafði heyrt áður ávæning af samskonar skoðunum, en venjulegast heyrt um þær talað sem illviljaða »vantrú«. Sjálfan sig skildi hann ekki svo vel, að hann gæti kannast við að ýmislegt í guðfræðinni hefði aldrei fest hjá honum rætur, og að hann var líka töluvert snortinn af »vantrúnni«. Þegar nú þessi »vantrú« kom utan að, vöknuðu því hjá honum mótspyrnutilfinningar,

svo hann fór að verja trúarbrögðin, eftir föngum, fyrir Jóni.

Grímur gekk þegjandi á undan. Hann tók stundum spretti og gekk þá svo hart, að mikið dró í sundur; en stundum gekk hann löturhægt. Annað slagið var hann auðsjáanlega að hugsa um að gefa orð í samræðu þeirra Þórðar og Jóns; en þeirri hugsun virtist hann sleppa jafnharðan aftur.

Gagnfræðingurinn var hár maður, ljóshærður, grannvaxinn, álútur og veiklulegur og hóstaði við er hann talaði lengi. Hann var magur og hvítur í andliti, greindarlegur og yfirbragðið góðmannlegt. Hann talaði hitalaust og þó af áhuga.

»Hinn sögulegi grundvöllur kristindómsins er aðallega nýja testamentið og sérstaklega guðspjöllin«, sagði hann er þeir höfðu talað nokkra stund. »Og þau eru ósamkvæm innbyrðis; enginn veit hvenær þau eru skrifuð, og svo að segja engum kemur saman um hvernig á að skilja þau. Taktu guðspjöll þeirra Matteusar og Lúkasar og lestu ættartölu Krists. Guðspjöllin tala um Krist sem afkomanda Davíðs og að öllum líkum eru ættartölurnar ritaðar til að sanna að svo hafi verið. Bæði guðspjöllin rekja ættina til Jóseps, og þó er hann ekki faðir Krists — eftir því, sem guðfræðin segir — heldur guð. Báðar ættartölurnar eiga náttúrlega að vera innblásnar af guði og þó ber þeim, í mörgu, alls ekki saman. Hvernig á nú að koma öllu þessu heim? — Eg tek þetta til dæmis, af því að það stingur svo fljótt í augun; en það er hægt að finna nóg önnur dæmi um mótsagnir og ósamræmi í guðspjöllunum. — Um Krist og kenningar hans voru til ýmsar ritaðar frásagnir, strax á fyrstu öld og jafnvel á dögum postulanna. Þessar frásagnir gengu gegnum margar rithendur, þekkingarlítilla og hjátrúarfullra manna, því þá var prentlistin ekki fundin. Strax á dögum postulanna bryddi á mismunandi skilningi á Kristi og kenningum hans, og sá mismunur óx er tímar liðu og olli mikilli baráttu milli trúflokkanna. Á þeim dögum var það almenn trú, að tilgangurinn helgaði meðalið og ósak-

næmt væri því, og jafnvel guði þóknanlegt, að víkja við orðum, fylla upp og fella burtu, þegar guðspjöllin voru afrituð, þeirri kristindómsstefnu í hag, sem hlutaðeigandi ritari var sannfærður um að væri hin eina rétta. Sumar hinar upphaflegu frásagnir týndust og aðrar breyttust, smátt og smátt. Og loksins seint á annarri öld virðast flest guðspjöllin hafa fengið þá mynd, er þau hafa nú. Hvernig er hægt að treysta áreiðanleik slíkra frásagna? Og þessi viðurkendu guðspjöll, og nýja testamentið yfirleitt, eru þar á ofan skilin á mjög mismunandi hátt, af hinum ýmsu kristnu trúflokkum, nú á dögum. Katólskir menn, Lúterstrúarmenn, Kalvinistar, Kvekarar, Methodistar, Presbyterianar, Adventistar o. s. frv., þykjast allir, hverjir um sig, sitja inni með hinn eina rétta skilning á kristindóminum, og hanga jafnvel í hárinu hver á öðrum út af því; því allir vita, að hið rétta getur þó ekki verið nema eitt. En hver á að gera þar upp á milli?«

Þórður vissi ekki hverju svara skyldi. En nú tók Grímur til máls. Honum var mikið niðri fyrir og rómurinn óstyrkur í fyrstu; en hann fekk brátt svo mikinn alvöruþunga, að hinir hlustuðu undrandi og þögulir.

»Þér fer eins og ungum mönnum er títt: þú tekur þá hliðina, sem þér finst veikust, og dæmir út frá henni, enda fullyrðir um það, sem þú getur ekki vitað um. En hvert mál er rétt að dæma fyrst og fremst eftir þess styrkustu hlið, og í hverju málefni á fyrst og fremst að leita að þeim sannleika, sem það felur í sér, eða getur falið. Látum svo vera, að hinn sögulegi grundvöllur kristindómsins sé ekki traustur; en kristindómurinn stendur ekki né fellur með honum. Að kristindóminum eru tveir lyklar er svo heita: »Elska skaltu guð þinn af öllu hjarta þínu«, og: »Bókstafurinn deyðir, en andinn lífgar«. Hinar mismunandi trúarskoðanir eru mismunandi ker, sem lyklarnir eru geymdir í. Með öðrum orðum: hinn sanni grundvöllur kristindómsins er eðlisástand, enn þá fremur en söguleg sannindi; hann er það, sem trúarbrögðin kalla samfélag við guð«.

Grímur þagnaði og gagnfræðingurinn svaraði ekki. Þó þóttist hann finna veika hlið á röksemdafærslunni, þar sem Grímur kallaði það lykil að kristninni, sem frekast var eftirsókt. Á hinn bóginn lamaði alvara Gríms hans eigin sannfæringu og auk þess bar hann virðingu fyrir Grími, sem hann áleit óvenjulega gáfaðan og vandaðan mann; enda hafði hann mikla forvitni á að heyra um trúarskoðanir hans. Í þeim efnum var Jón sjálfur á umbrotaskeiði og vildi því ekki leiða samræðuna í það spor, að Grímur kynni að firtast við og þagna; því það vissi hann að um trúarefni var Grímur dulur og orðvar að jafnaði.

En það var eins og Grímur hefði lesið í hug hans og tók nú aftur til máls: »Ef til vill hefi eg ekki komist heppilega að orði; ef til vill væri réttara að segja, að vegurinn að hinni sönnu kristni væri ástundun hins góða. Hin rétta kristindómsfræðsla er það að kenna mönnunum, kenna börnunum, að elska guð. Með réttri aðferð er þetta oftast auðvelt verk, því barnshugurinn er oftast fullur aðdáunar á því, sem ofan við það stendur, og fullur löngunar eftir fullkomnun. En í stað þess að leiðbeina þessari þrá og ala hana, ruglum við hana, veikjum og upprætum. Í stað þess að kenna barninu að elska guð og leita hans, kennum við því »guðfræði«, sem kemur í bága við ýmislegt annað, sem því er kent, er langt um of þungskilin fyrir börn og þar á ofan full af mótsögnum. Við skulum taka ákveðið dæmi: Kirkjan kennir, meðal annars, um djöful, helvíti og eilífan dauða, og til að forða mönnunum við þessu, fórnar guð sínum eigin syni. En skilyrðið fyrir því að sú fórn verði einstaklingnum að liði er trú á þennan son, trú, sem mikill fjöldi mannkynsins hefir engan aðgang að og miklum fjölda af hinum er allsendis óaðgengileg, á þeim grundvelli, sem hún er flutt. Eftir þessari trú eiga mennirnir að skiftast til eilífrar kvalar og eilífrar sælu. — Sleppum því að slík kenning er gagnstæð þroskaðri skynsemi, þroskuðum mannkærleika og þroskaðri réttlætistilfinningu. Við skulum

taka aðra hlið á málinu. Tökum þá hlið að þessi kenning er flutt börnum vorum í kristindómsins nafni, sem sjálfsögð sannindi. En í heimahúsum og á mannamótum heyrir barnið ávæning af því, að hún, og ýmsar aðrar af kenningum kirkjunnar, sé ekki annað en guðfræðingavefur; og frá prestinum sjálfum berast sagnir um, að hún sé að minsta kosti vafasöm. Við kennum barninu þannig í öðru orðinu að það sé lygi, sem við í hinu orðinu kennum því að sé sannleikur. Og hver mundi afleiðingin verða? Hver önnur en sú, að meðvitund barnsins, um rétt og rangt, ruglast og sannleiksástin kólnar? Það finnur hjá sér vanmátt til að komast að hinu rétta; það þreytist í viðleitninni eftir fullkomnun; ást þess og aðdáun á hinu fullkomna — sem það ekki getur sannfærst um hvað sé — kólnar og þverrar; það hneigist meira og meira að því að fylgja straumnum hugsunarlaust, meira og meira að því, að fullnægja í skemtunum og líkamlegum munaði þeirri unaðarþrá, sem býr í hverri mannssál og finnur sína fylstu svölun í trúarbrögðunum, þegar rétt er stefnt. »Bókstafurinn deyðir«. Djúpsæi hins mikla höfundar kristindómsins sannast á hans eigin þjónum. — —

Lítið þið á fólkið; lítið á þjóðina. Hún er fangin af hvíldarlausri óþreyju; hún leitar og finnur ekki. Og vegna hvers? Vegna þess að hún leitar beint í öfuga átt. Vegna þess að hún leitar þess í líkamlegum munaði, sem að eins finst í andlegri nautn; að eins í meðvitundinni um eigið innra gildi; að eins í meðvitundinni um samræmi eigin lifnaðar við það lögmál, sem höfundur lífsins hefir sett og viðleitni eftir að ná því samræmi; að eins í því, sem trúarbrögðin kalla samfélag við guð. — Þú talar um sögulegan grundvöll. En hvað er sögulegur grundvöllur? — Getur nokkur sagt til þess, hve mikil reynsla, hve mikil viðleitni og hve margir árekstrar liggja á bak við þekkingu mannkynsins á hollum og óhollum efnum, í líkamlegu tilliti, þekkinguna á nauðsynlegum efnum, eitri og ólyfjani? Nú þekkjum vér allvel þann greinarmun; hann er orðinn vísindaleg sannindi,

orðinn, að vissu leyti, sögulegur grundvöllur. Og hví skyldi annað lögmál gilda í andlegum efnum? Hví skyldi reynsla mannkynsins um það, hvað því er holt og óholt í andlegum efnum, vera einskisverð? Hví skyldi mannkynið halda jafnfast og það gerir í trúarbrögðin, ef ekki fælust í þeim sannindi, er mikilvæg væru fyrir það? — Um margar aldir hefir mannkynið raðað um guðshugmyndina öllum þeim eiginleikum, sem það álítur göfgasta og bezta; öllum þeim eiginleikum, sem þess beztu og djúpsæustu menn hafa fundið að eru því hollastir og nauðsynlegastir. Og hver sá, er af alvöru reynir að nálægjast guð, styrkir eftir sjálfsögðu náttúrulögmáli þessa eiginleika í sjálfum sér. Hver sá er í sannleika elskar guð, hann elskar um leið alt sem göfugt er og gott. Hefir þú athugað hvílíka þýðingu þetta hefir haft, og getur haft, fyrir framsóknarviðleitni mannkynsins?

Það er satt, eg get ekki sýnt þér guð. Hversu sterk sem trú mín er á tilveru hans, þá get eg ekki gefið þér hina áreiðanlegu vissu í þeim efnum. Enginn maður hefir guð séð; hann verður að eins fundinn. En í rauninni er meðvitundin um guð miklu rótgrónari í mönnum, en margir þeirra vilja kannast við. Eg hefi þekt menn, sem gert hafa gys að öllum trúarbrögðum, menn, sem lifað hafa eftir sínum dýrslegu hvötum, svo langt, sem þeir hafa frekast þorað, fyrir almenningsáliti og lögregluvaldi. Og á hinn bóginn hefi eg líka þekt menn, sem horfið hafa frá hinni kristnu trú, leiddir af réttlætistilfinningu og sannleiksást. En eg hefi engan mann þekt, sem verið hefir fullkomlega sannfærður um, að guð væri ekki til. Inst í hugskoti allra svokallaðra trúlausra manna, sem eg hefi kynst, hefi eg fundið þá hugsun, að ef til vildi væri guð að vísu til, en það væri þá góður guð, sem mundi fyrirgefa sínum breysku börnum. Guð er mörgum mönnum nokkurs konar varaskeifa og ekki annað. En guð lætur ekki að sér hæða. Helvíti í kirkjulegum skilningi er, að öllum skynsamlegum rökum, ekki til; skilgreining mannanna í tvo flokka, til eilífrar sælu og eilífra kvala,

er gagnstæð réttlætismeðvitund vorra tíma. En þó er helvíti sannarlega til. Myrkrið er andstæða ljóssins og kuldinn andstæða hitans, einnig í andans ríki. Og svo getur farið fyrir manninum að hann missi algerlega sjónar á lífsins sól; svo getur farið jafnvel fyrir hinum beztu, og hvað mun þá hinum verða, sem aldrei hafa lagt stund á það, sem »eitt er nauðsynlegt«? — Svo getur farið fyrir manninum að hann skilji af sjálfs reynd þá sálarkvöl, sem liggur á bak við orðin, sem töluð voru í fyrndinni, austur á Gyðingalandi: »Guð minn! Guð minn! Hví hefir þú yfirgefið mig?« — Ef til vill bregðast einhverjar mjög mikilsvarðandi vonir hans; ef til vill er öll hans tímanlega velferð í veði; ef til vill missir hann ástvin, sem alt hið bezta í eðli hans er gróið við. Og í neyð sinni leitar hann, ósjálfrátt, þess guðs, sem hann hefir ekki þóst þurfa við. En hann grípur í tómt; hinn síðasti neisti guðlegrar meðvitundar er slokuaður. Og hann vaknar með skelfingu, einmana í hinni miklu sálarnótt«.

Gagnfræðingurinn hrökk við og leit til Gríms. Hver var sá maður, er þannig talaði, og hvers konar sú æfisaga, sem lá á bak við þessi orð? — En nú var orðið dimt. Þeir voru komnir nærri bænum á Barði og gengu hljóðir það, sem eftir var. Ljós logaði í göngum; og er þeir komu í bæjardyrnar kom húsfreyja á móti Grími og lagði hendur um háls honum; þau kystust innilega og hann klappaði henni um leið. Gagnfræðingurinn óskaði með sjálfum sér að hann ætti svona góða konu.

Grímur sneri sér nú að Þórði og spurði, hvort hann vildi tefja. En Þórður kvað nei við því, kvaddi og fór. Hann hafði þó í fyrstu hugsað sér að tefja, ef honum yrði boðið það, og freista hvort ekki teygðist betur úr talinu um trúarbrögðin. Hugur hans hafði verið óvanalega vakandi á meðan Grímur talaði. Sumt af því, er Grímur sagði, skildi hann ekki; en á hinn bóginn hafði sumt af því hitt hans eigin trúartilfinningar og skoðanir, undarlega rétt. En er þau heilsuðust hjónin í dyrunum, hafði honum sýnst bregða fyrir sársaukablæ á andliti

Gríms, og þetta hafði þau áhrif á hann, að hin venjulega tilhneiging hans til að fara einförum vaknaði. Hann fór þó brátt að hugsa aftur um ræðu Gríms. Það var sérstaklega eitt í henni, sem hafði fest sig mjög í huga hans, þau ummæli, að fagnaðarþrá mannsins fengi sína fylstu svölun í trúarbrögðunum, þegar rétt væri stefnt. Þetta minti hann á æskudagana; og sèrstaklega mintist hann nú eins atviks, sem hann hafði verið búinn að gleyma. Faðir hans hafði farið að heiman og hann átti að annast sauðfé á meðan. Um kvöldið vantaði nokkrar kindur. En um nóttina vaknaði hann við að komin var blindhríð, svo hvöss, að húsin kiptust við fyrir storminum. Hann hafði farið að gráta, yfir því, að kindurnar, sem faðir hans hafði trúað honum fyrir, mundu nú farast i hríðinni. En þá komu honum í hug orðin: »Hvers þér biðjið föðurinn í mínu nafni, það mun hann veita yður«. Og hann lagðist á bæn og bað af allri sálu sinni til guðs, um að hríðin grandaði ekki fénu, svo hann gæti skilað því heilu í hendur föður síns. Og þegar hann hafði lokið bæninni, fyrir litilli stundu, slotaði hríðinni; og litlu síðar var veðrinu slegið í dúnalogn. Sá innilegi fögnuður, sem þetta hafði valdið honum, stóð honum nú lifandi fyrir hugskotsaugum. En hafði þetta verið tilviljun, eða hvað? — Annars hafði hann oft beðið til guðs, í æsku, og oft verið bænheyrður — og oft ekki. Og svo hafði trúin á bænina kólnað smátt og smátt. — En nú var hann orðinn þreyttur af göngunni. Hann fór að langa til að komast heim og hvíla sig. Svo hvarflaði hugurinn að kindunum, hvort þær hefðu allar komist í húsin og hvort önnur útiverk hefðu gerst í réttu lagi. En brátt hvarf einnig sú hugsun, og hann gekk áfram, í þögulu myrkrinu, þar sem ekkert heyrðist nema hans eigið fótatak, hugsunarlaust, altekinn af þrá eftir hvíld. — — —

Guðrún hafði verið ein heima um daginn, með börnin. Hún lét þau fara í beztu fötin um morguninn og færði þeim sæta mjólk, kleinur og lummur, og auk þess laufabrauð og magál, sem voru leifar frá kvöldinu áður.

En hinn eiginlegi jóladagsmatur var hrísgrjónagrautur með rúsínum, hangikjöt, pottbrauð og smjör. Yfir öllu þessu voru börnin mjög ánægð og glöð; en einkum þótti þeim mikið varið í laufabrauðið og reyndu sig hvert við annað að geyma eitthvað af því sem lengst. Þau voru hæglát, framan af deginum, því móðir þeirra sagði þeim, að þau ættu að vera siðprúð á jólunum. En er leið á daginn, þreyttust þau á hreyfingarleysinu og fóru að leika sér; og er fram í sótti, urðu leikirnir með glaummesta móti, því nú þurftu þau að bæta sér upp hreyfingarleysið, framan af deginum. Út af leikjunum spratt svo óánægja, ósátt og grátur, svo að móðir þeirra varð að skakka leikinn, hvað eftir annað. Ofan á barnastríðið bættist það, að féð kom ekki heim, vegna þess hve veðrið var gott. Hún sendi þá Sigríði að leita þess og var hún ein með yngri börnin. Eftir mikið stríð svæfði hún þau yngstu, í rökkrinu, og hin sofnuðu sjálfkrafa á eftir, eitt af öðru. Þegar Sigríður kom heim, var alt orðið hljótt; og sökum þess að móðir hennar hafði ekki kveikt, lagði hún sig líka fyrir og sofnaði. Guðrún hafði sömuleiðis lagt sig út af, en vakti og beið eftir Þórði. Hún var orðin gremjufull í skapi, yfir því að stríða við börnin; og því lengur sem hún beið, þess gremjufyllri varð hún og beisklundaðri. Þetta var sama sagan aftur og aftur, sama stríðið dag eftir dag, alt af hvíldarlaust og endalaust. Til kirkju hafði hún nú ekki komið í hálft annað ár, en Þórður hafði farið þrisvar eða fjórum sinnum. Og nú sat hann að líkindum á einhverjum bænum, við góðgerðir og skemtanir. Hún hugsaði að hún skyldi þó láta hann vita, þegar hann kæmi heim, að hún fyndi hvílíkur munur væri á æfi þeirra; ef ekki með orðum beinlínis, þá að minsta kosti með allri þeirri beiskju í rómnum, sem hún gæti í hann lagt.

Loksins kom Þórður. Hann gekk hægt um hurðir, og hljóðlega og þreytulega inn eftir gólfinu. Hlýleika tilfinningar Guðrúnar vöknuðu og hana langaði til að taka vel á móti honum. En þá varð gremjan sterkari og löng-

unin til að svala henni. Þórður varð var við að hún vakti og kastaði á hana kveðju. Svo spurði hann: »Viltu ekki fara á fætur og kveikja ljósið«? »Mér sýnist að þú getir það, engu síður en eg«, svaraði hún. Það var nístandi kuldi í röddinni. Þórður svaraði ekki; honum fanst lífið vera svo undarlega þungt og einmanalegt, líkast því að hann væri staddur á eyðiey, þar sem hvergi sá til lands og engin var hjálparvon. Hann þreifaði fyrir sér í myrkrinu og fann þrífættan tréstól og settist á hann við borðið. Og nú mintist hann aftur þess innilega fagnaðar, sem hann hafði fundið til, þegar guð bænheyrði hann í hríðinni forðum og reyndi að biðja til guðs. En honum var ómögulegt að leggja allan hug sinn í bænina; hún varð tóm orð, köld og dauð. Skyndilega greip hann slík sálarangist, að hann hrökk við og köldum svita sló út um hann: Hann hafði tapað tilfinningunni um tilveru guðs. — —

Guðrún kom inn með ljós. Hún hafði strax iðrast eftir því, hve hún tók Þórði beisklega og vildi bæta það, en þorði ekki að koma til hans og vissi ekki hvað hún átti til bragðs að taka. Sigríður var nú líka vöknuð og spurði: »Er orðið langt síðan þú komst, pabbi minn?« Röddin var þýð og full af hinni einlægu ást dótturinnar. En hún hafði engin áhrif á Þórð; hugsun hans var máttvana og tilfinningarnar hljómlausar og kaldar. Þetta eitt var skírt: að guð hafði fjarlægst hann smátt og smátt og nú að lokum yfirgefið hann til fulls. Og þá — hvað hafði hann unnið til? — Eða var guð hefnigjarn? — — Ellegar var hann alls ekki til? — — —

---

# Alexander Petöfi.



Alexander Petöfi, þjóðskáld Magýara (Ungverja) er fæddur 1. janúar 1823 í þorpinu Kis Körös í fylkinu Pest; var skírnarnafn hans Alexander (Sándor) Petrowitsch, og faðir hans og móðir bæði slafnesk að ætt og uppruna, en tóm magýariska eða ungverska var töluð á heimilinu. Nafnið Petöfi tók Alexander ungi seinna upp sjálfur. Faðirinn var stórefnaður slátrari, og ætlaðist hann til að sonur hans yrði það líka á sínum tíma, en með því að snemma bar á því að drengurinn væri óvenju vel gáfaður og skáldmæltur — hann kastaði fram stökum sex ára gamall, — þá kom móðirin því til leiðar, að hann var til menta settur og gekk það vel framan af; hann var í lærðum skóla og tók góðum framförum, var t. a. m. talinn með hinum allrafremstu í latínukunnáttu, en bæði var að hann feldi sig ekki við skólalífið, því mikill var hann fyrir sér og fullur af frelsisþrá og svo tók hann jafnframt að hneigjast að leikaralist og leikaralífi; hljópst hann því

burt úr skóla á miðju skólaári, en faðir hans, sem um sama leyti fyrir sérstök óhöpp var öreigi orðinn, varð honum afarreiður fyrir tiltækið og sló alveg hendi af honum. Hóf pilturinn þá allslaus göngu sína um hávetur í hörkufrosti, lagði land undir fót og lifði æfintýralegu slangurlífi um nokkur ár, oft við basl og bágindi og tók ýmislegt fyrir; einna oftast var hann í för með umferðaleikurum og lék með þeim, en þótti jafnan lélegur leikari; um eitt skeið var hann dáti, en þoldi það þá ekki sakir þroskaleysis; svo var hann aftur við skólanám, og er það víst, að á hverju sem valt, þá misti hann aldrei sjónar á að menta og þroska anda sinn, og alla tíð las hann mikið hve nær sem hann komst höndum undir; en meira mun hann þó hafa lært af lífinu en bókunum á þessum árum, svo margt sem á dagana dreif. Síyrkjandi var hann og áhuginn ákafur á því hvorutveggja, skáldskapnum og leiklistinni, en í henni komst hann nú enga leið; það var í skáldskapnum sem honum var áskapað og ætlað að ná hinu hæsta. Er enginn efi á því, að þessi ár, sem hann lifði á flækingnum — sumir menn kalla þann veg afveg, sem hann lagði út á, en fyrir hann var það einmitt hinn rétti vegur — þau ár gerðu hann hvað mest að því, sem hann varð, þau stæltu hann og hertu og það, sem hann á þeim hafði séð og lifað og reynt, það veitti honum ótæmandi fjársjóð af yrkisefnum og lagði undirstöðuna að þeim skáldskap, sem hann átti síðar að verða frægur fyrir. 1844 kom út fyrsta kvæðasafn hans, sem enginn bóksali hafði viljað líta við eða taka til prentunar. Var útgáfan kostuð af bókmentalegu félagi nokkru, fyrir eindregin meðmæli skáldsins Vörösmarty[1]), sem þá var höfuðskáld Ungverjalands. Urðu

[1]) Vorið 1842 hafði Petöfi komið til Pest félaus og allslaus og tók þá það ráð, að fara á fund Vorösmarty í bágindum sínum; kom hann til hans fremur flækingslegur ásýndar, með gatslitin stígvél, pappírsflibba og á lánuðum kjól og bað hann viðtals. Vorösmarty leizt ekki á manninn og tók honum fálega í fyrstu, leyfði honum samt að lesa upp fyrir sér nokkuð af kvæðum sínum. Vorösmarty hlustaði á um

menn þegar stórhrifnir af kvæðunum háir sem lágir; menn fundu að hér var í ljós kominn auður, sem menn átt höfðu og ekki af vitað, að þetta var hinn rétti þjóðlegi skáldskapur og að hér var sá kominn til sögunnar, sem vakið hafði Þyrnirósu ungversks skáldskapar af dáinu og leyst hana úr álögum, og óðara ruddi sú skoðun sér til rúms, að Petöfi væri mestur allra ungverskra skálda, og hvarvetna voru ljóð hans lesin og sungin og á hvers manns munni. Og að því er ytri kjör snerti, var honum nú fullborgið, þar sem hann á svipstundu hafði náð svo miklu áliti og gat haft góða afkomu sem rithöfundur. Sættist hann, er hér var komið, heilum sáttum við föður sinn og styrkti drengilega foreldra sína í fátækt þeirra.

1846 kyntist hann Júlíu Szendrý, ungri stúlku afbragðs fríðri, dóttur auðugs ármanns á aðallegu höfuðbóli; feldi hann brennandi ástarhug til hennar og hún til hans og vildu þau eigast, en faðirinn stóð í móti; þótti Petöfi helzt til fátækur og ekki nógu mikils háttar handa dóttur sinni; áttust þau svo að honum nauðugum. Undi nú Petöfi hag sínum hið bezta; hann var kvæntur yndislegri konu og á fyrsta ári fæddist honum sonur, sem hann lét heita Sándor. Kona hans var og prýðilega gáfuð og skáldmælt og hefir hún ritað ýmislegt. En þessi heimilislega friðarsæla og sólskin var samt fljótt úti, því nú kom stjórnbyltingaárið 1848 og frelsið fór »sem morgunblær um löndin«, en Petöfi var hinn áhugamesti ættjarðarvinur og frelsisvinur svo eldheitur, að hann segir um sjálfan sig:

Fyrir ástina lífið mitt arma
Eg óhikað fram mundi leggja,
En fyrir frelsið eina
Eg fús léti hvorutveggja.

---

stund og fanst mikið til, og eftir því meira og meira sem Petöfi las lengur, og svo kom, að hann varð gagnhrifinn og vöknaði um augu; loksins spratt hann upp úr sæti sínu, faðmaði Petöfi að sér og sagði: „Þér eruð það bezta ljóðskáld, sem Ungverjaland nokkurntíma hefir átt“. — Fyrir kvæðin fekk Petöfi 75 flórinur að ritlaunum, — ekki beysin upphæð, en á því reið honum lífið, að hann fengi hana eins og þá var ástatt fyrir honum, þar sem hann var hungraður og allslaus.

Og er Magýarar hófu uppreisnina og frelsisbaráttuna gegn Austurríki, þá var hann þegar meðal hinna fremstu, bæði í orði og verki, orti herhvatir fullar eldhuga og skipaði um tíma fulltrúasæti á þjóðfundinum í Pest; vék hann úr því sæti, sakir óþols, er hann eirði ekki til lengdar öðru en að berjast fyrir frelsinu sjálfur; gekk hann í »Honved«-herinn (her ættlandsverjendanna) sama árið og varð fyrst leyndarskrifari og höfuðsmaður, seinna fyrir afburða vaskleik »majór« og »adjútant« hjá Bem hershöfðingja, frelsishetjunni pólversku, sem stýrði »Honved«-hernum. Um vorið 1849 var hann lýstur í óhelgi með öðrum oddvitum byltingarinnar; þótti það ekki auka lítið á sekt hans, að hann var höfundur hersöngva þeirra, er fylt höfðu Magýra eldmóði og stuðlað svo drjúgum að sigrum þeim, er þeir höfðu unnið á Austurríkismönnum. Segir það seinast af honum, að hann var í orustunni við Schässburg (Segesvar) 31. júlí 1849, þar sem Bem beið ósigur fyrir Rússum, en þeir voru fimm sinnum liðfleiri; Austurríkiskeisari hafði sem sé fengið öfluga liðveizlu hjá Nikulási Rússakeisara mót Magýörum, þegnum sínum. Hafði Petöfi sézt rétt áður en ornstan hófst, en úr því var hann horfinn og þrátt fyrir nokkurn orðasveim, er hélst allengi á eftir, um það, að hann mundi hafa verið handtekinn af Rússum, þá komust menn síðar að áreiðanlegri vissu um það, að hann mundi hafa fallið, sennilega högginn niður af Kósökkum, því ekki kom neinum til hugar, sem þektu Petöfi, að hann mundi hafa beiðst griða af rússneskum dátum, jafnvel ekki, þótt svo hefði borið undir, af Zarinum sjálfum«;[1] mundi hann svo hafa beðið þann bana, er hann hafði óskað sér í »óðunni«: »Ó, kvíðvænleg hugsun«, og verið jarðaður saman við aðra, er í bardaganum féllu. Er sú ætlun manna, þó menn viti það ekki til fulls, og má með sanni segja, að hann »eigi sér ekkert leiði« og þann veg hefir kveðið annað ungverskt skáld (Josef Levai):

[1]) Sbr. Hugo Meltzl, Wolken, Lyrischer. Cyklus von Alexander Petöfi. 47 bls.

Einhversstaðar sigudu á sviði
Sof, Petöfi minn! í friði;
Hvíldu í dauðans myrku móðu,
Miðlar ættjörð legi;
Hún gaf þér um æfina' eigi
Of mikið af góðu.

Þannig lauk æfi Petöfi og þannig hvarf hann úr heimi á dagmálaskeiði æfinnar, fullhuginn snjalli og frelsisskáldið göfuga,

Jafnsnjall við sælan Sjafnar draum
Og sverða þyt á dauðastundu.

En það sem ekki hvarf úr heimi, það voru hin ódauðlegu skáldmæli hans og endurminningin um hetjuna ungu, sem innsiglaði frelsistrúna með blóði sínu; hann lét sér ekki nægja að lifa og ljóða fyrir frelsið, hann fórnaði lífi sínu fyrir það og sú fórn var eigi að eins fyrir frelsi hans eigin ættjarðar, heldur eftir hans hugsjón fyrir »heims þjóða og heimsins alls frelsi«. Það, sem eftir hann liggur sem skáld — hvað mundi það ekki hafa orðið, ef honum hefði orðið lengra lífs auðið? — það nægir til að setja hann í röð meðal heimsins fremstu ljóðskálda, sérstaklega sem ásta, frelsis og herhvataskáld. Og það skal aðallega tekið fram, að sannara skáld en hann hefir aldrei verið. Menn hafa brugðið honum um öfgar og ofsa í þjóðveldisfylgi og ofstækilegt furstahatur, og gerði það allmarga samtíðismenn honum fráhverfa. Hitt er aðgætandi, að þá gekk voldug frelsis- og byltingaalda yfir Norðurálfuna, þó endaslepp yrði, en hann á ungum aldri og ekki farinn að setjast. Það er og sannast að segja, að enda þótt öfga þessara gæti í kvæðam hans, þá kennir þeirra óvíðast svo að það rýri skáldlegt gildi kvæðanna. Ber hér að sama brunni, að Petöfi var í insta eðli sínu svo sannur, bæði sem maður og skáld, enda segir hann um sjálfan sig í bréfi til eins af vinum sínum: »Þegar eg fæddist, lögðu forlögin hreinskilnina í vöggu mína eins og reifa; eg mun líka taka hana með mér í gröfina eins og lík-

klæði mitt. Hræsnin er auðveld íþrótt og henni getur hver lubbinn brugðið fyrir sig, en að tala hispurslaust og hreinskilnislega úr djúpi sálarinnar, það geta ekki og það áræða ekki nema drenglynd hjörtu«.

Af Júlíu, ekkju Petöfi, er það að segja, að þegar liðið var framt að þremur árum frá hvarfi hans og full vissa þótti fengin um dauða hans, þá giftist hún öðrum manni, háskólakennara einum í Buda-Pest; bæði hún og Sándor eru fyrir margt löngu dáin. Standmynd Petöfi af eiri gjör var afhjúpuð í Buda-Pest með miklum veg og viðhöfn 15. okt. 1882 og stendur hún á stóru auðu svæði fyrir framan eina af kirkjum borgarinnar.

Eins og nærri má geta, er Petöfi í mestu afhaldi hjá Magýörum sjálfum. Í þeirra bókmentum reis hann fyrstur mót hinni gömlu »klassisku« stefnu, sem ríkt hafði í skáldskap þeirra að undanförnu. Hann var þar á móti frumlegt og sannarlegt náttúruskáld og í stað þess skáldskapar, sem bundinn hafði verið við kaldar og þvingandi reglur, kom hann þjóðljóðakveðskapnum (Volkslied) í öndvegi og orti eftir engum öðrum reglum en þeim, sem gáfan skapar sér sjálf. Í samanburði við hið eldra var hans skáldskapur eins og veltandi straumur í leysing á vordegi. Hann sameinaði það, að vera »realisti« og hugsjónaríkur (idealisti) um leið. Alt hjá honum, jafnt lýsingar á lægsta hversdags lífi og hæsta hugsjónaflug var svo ljóst og einfalt, náttúrlegt og alþýðlegt, að það átti við alla og hreif alla. Sjálfur var hann svo sannur Magýari sem fremst má verða, því í honum bjó á hæsta stigi það, sem bezt er og einkennilegast í þjóðlyndi þeirra, eldlegt fjör og guðmóður, leikandi gamansemi samtvinnuð við alvöru og þunglyndi, göfugur þjóðmetnaður og óhemjandi frelsishugur; þetta alt fann þjóðin í skáldskap Petöfi og þar þekti hún sig sjálfa. Í ljóðum hans á hún trúa spegilmynd sjálfrar sín.

Sýnishorn þau af ljóðagerð Petöfi, sem hér fara á eftir, eru þýðingar eftir þýzkum þýðingum úr frummálinu, en það munu vera um fimtíu þýzkir þýðarar, sem fengist

hafa við að þýða kvæði hans; svo mikið þykir til þeirra koma á þýzkalandi. Fjölda margar þýðingar á öðrum málum eru gerðar eftir hinum þýzku, því ungverskan eða magýariskan er af örfáum lærð. Hún er af þeirri tungumálaætt, sem nefnist hin túranska, systurtunga finsku og tyrknesku. Segja þeir, sem til þekkja, að hún sé einkar hljómfögur í skáldskap. Um það ber öllum saman, að mesta vandhæfi sé á því að ná hinni einkennilegu snilli Petöfi, en hvað sem því líður og hversu svo sem þýðingarnar eru í samanburði við frumkvæðin, þá er samt skáldskapur Petöfi lesinn og dáður um víðan heim.

## Tveir á ferð.

Um fjöll fara tveir og í tómi
Þeir tengt hafa saman sinn gang:
Einn yngissveinn framandi' á foldu
Og fjall-lækur heimlands á vang.

Er síns vegar sveinn fer í hægðum
Og seint leggur storð undir fót,
Inn hraðfæri lækur sér hendir
Um hamrastorð ofan í mót.

Og alt af er yngissveinn þögull
Og ei gefur frá sér neitt hljóð,
En kátt niðar kliðmikill lækur
Og kveður tóm glaðværðar ljóð.

Nú fjöll eru báðum að baki
Og breið tekur flatneskjan við;
Þeir sveinninn og lækurinn leita
Á leið fram um sléttunnar svið.

En bráðlega breyting nú verður
Á báðum, og hún ekki smá,
Því skifzt á þeir hlutverkum hafa,
Er hauðrið slétt komust þeir á.

Því dapurt og dauft rennur lækur
Og drepið úr straumnum er hljóð,
En sveinninn svo hraðlega hleypur
Og hátt syngur fagnaðar-ljóð.

Hvað olli? — hinn hljóðnaði lækur
Nú heimhögum fráskilinn rann,
En hlaupandi hinn söng svo glaður,
Því heimland sitt aftur hann fann.

## Það rignir, það rignir.

Það rignir, það rignir — en hverju?
Það rignir kossum svo ört.
Ó hve mig sannlega sælan
Sú signaða rigning fær gjört!

Og svo þegar rignir og rignir,
Í rennu sjást leiftrin með;
Frá augunum þínum þau þjóta,
Þau þekki' eg og tíðum hef séð.

En, bitti! nú þrumar, nú þrumar,
Æ, það fylgir leiftrum hvert sinn.
Eg forða mér, kæra! nú kemur
Hann karl gamli, faðir þinn.

## Svo stór er veröld.

Svo stór er veröld og þú henni hjá,
Mín hjartans dúfan! ó hvað ertu smá,
En ef í mína eign þú skyldir falla,
Eg ei þig léti fyrir veröld alla.

Þú dagur ert, en aldimm nóttin eg,
Með engar stjörnur, svört og raunaleg,
En, ó hver morgunroði rísa næði,
Ef rynnum við í eining saman bæði!

Til jarðar horfðu' — á mig ei horfðu, mær!
Svo mig ei brenni loginn augna skær,
En hvað um það, fyrst þú ei vilt mig þýðast,
Þá þjáðu mig og brendu mig sem tíðast.

### Labbaði ég í eldhús inn.

Labbaði èg í eldhús inn,
Engri var eg þó í klýpu;
Nú, hvað vildi' eg? annað ei
En að kveikja í minni pípu.

Mikil ósköp! — eldur brann
Ofurglatt í pípu minni;
Eg fór inn í eldhús því
Inndæl stúlka var þar inni.

Ung þar stóð hún eldstó við,
Eldinn glæddi og seið mér bjó hún,
Blíðlát sólum brúna með
Brendi mig, er við mér hló hún.

Spengileg var hrund og hýr,
Hana vel við seið má kenna:
Er í pípu eldur dó,
Í mér hjartað tók að brenna.

### Skýin.

Ef væri eg fugl, á farleið skýja
Eg fljúga mundi æ og sí;
Ef væri' eg málari, þá mundi' eg
Ei mála annað neitt en ský.

Mér hugljúf eru og hjartkær skýin,
Eg hverju heilsa, í nánd sem ber,
Og er það svífur sinnar leiðar,
Þá segi' eg: »Veri Guð mér þér!«

Þá loftfarendur, léttfær ský́in,
Fyr löngu' eg gerði' að vinum mér,
Svo mig þau þekkja og munu vita,
Um mína hagi títt hvað er.

Hve sæll og margoft sjónum leiddi,
Er sváfu þau svo værðargjörn
Í árdags- bæði og aftans roða
Við andlangs barm sem saklaus börn!

Eg sá þau koma klædd til styrjar
Lík kempum reiðum, brúnasíð,
Og hart gegn Stormi, harðstjóranum
Á himinvangi þreyta stríð.

Eg sá í næturkyrð þau kringja
Með kærleiks önn, er hvergi sveik,
Hinn sjúka svein, hann Silfrinmána,
Sem systur hans með ennin bleik.

Í öllum hömum, öllum myndum,
Í öllum litum þau eg sá;
En hvar og hvernig sem eg sá þau,
Þá sömu töfra eg fann þeim hjá.

Hví þý́ðist svona þau minn andi? —
Í þeim hann sjálfs sín líking sér,
Sem alt af hverfist, alt af breytist,
En æ og æ þó samur er.

Þau líkjast mér í öllu og einu,
Og eign skal þeirra síðast töld:
Svo ofursvipað augum mínum
Þau eiga tár og leiftra fjöld.

### Ljón í grindabúri.

Það rásaði áður á öræfa-söndum;
Nú er það í fangelsi' und manna höndum

Nú jöfurinn sandauðna jafnan má stúra,
Í járngrinda búrinu sárt er að kúra.

Því hlífist við ljónið — það er undir oki —
Að erta það nú væri glæpslegur hroki.

Því fyrst ekki aftur það frjálst má sig gera,
Um frelsið að dreyma því leyft skyldi vera.

Fyrst toppsins á eikinni til ekki nær það,
Þá takið ei skuggann, sem af henni fær það.

Enn stendur það hnarreist og sviptign með sama;
Þá sviptign tókst þrældómnum ekki að lama.

Sem pýramíðinn hinn stolti það stendur,
Er stiknandi á söndunum títt leit það endur.

Það dreymir sig alfrjálst í erfðanna löndum;
Eitt augnablik gleymir það prisund og böndum.

Það sveimar í hug út' á söndunum víðum,
Með *Samúm*[1]) þar öskrandi geystist það tíðum.

Það dreymir um óðul og umliðinn beiður,
Þá að kemur grindabúrs vörðurinn leiður.

Og úti' er þá draumur, í svertingja sýður
Og svipan af alefli' að ljóns höfði ríður.

Já, svipan að því og úr þvílíkri mundu, —
Því þrumaði ei himinn og sló hann að grundu?

Sitt tignprúða höfuð það hneigir að jörðu
Og hnípnar af smánunar verkinu gjörðu.

Að grindum treðst skríllinn svo ótt sem hann orkar,
Með ópi og háði hann ljóninu storkar.

Far varlega, skríll! þú, sem hundvesæll hæðir,
Nú, hvað ef það sprengdi sitt grindbúr í æði!

Það træði þig, knosaði og tætti' í flýti,
Svo tæplega heil kæmist sál þín í víti.

---

[1]) Samúm nefnist glóðheitur og stundum banvænn vindur, sem blæs í sandauðnum Norður-Afríku og Asíu.

### Glasið mitt.

Mitt væna glas! eg virði þig, en samt
Mér við þig gremst af einum hlut jafnframt:
Mitt væna glas! það alt af ergir mig,
Hvað ósköp fljótgert er að tæma þig.

Ef væri eg þú, þá, væna glas! eg sver,
Að vínið aldrei þrjóta skyldi í mér,
Og værirðu eg, á þér eg það hef traust,
Að þú úr mér þá drykkir endalaust.

### Þjóðsöngur Magýara[1]) (*Talpra Magyar*).

Upp nú, lýður! land þitt verðu,
Loks þér tvíkost boðinn sérðu:
Þjóðar frelsi, þrældóms helsi;
Þú sérð muninn, kjóstu frelsi.
Eið við guð vors ættlands sverjum,
Einn og hver,
Þann, að aldrei þrældóm framar
Þolum vér.

Þrældóms borið hlekki höfum,
Hvílík skömm á feðra gröfum!
Frá því eign á fold þeir slóu,
Frjálsir hér þeir lifðu og dóu.
Eið við guð o. s. frv.

Bræður! sverð er betra en hlekkir,
Bezt í hetju mund sig þekkir;
Hlekkja bárum háðung arga,
Hjálpa, sverð mitt! frelsi' að bjarga.
Eið við guð o. s. frv.

Ungarns sæmd svo upp úr dái
Endurrisin ljómað fái,

[1]) Þjóðsöngur þessi var hið allrafyrsta, sem prentað var, þá er Ungverjar höfðu varpað af sér prent-ófrelsis okinu austurríska (15. marz 1848); hann hreif þjóðina líkt og Massilíubragur Rouget de l'Isles hreif Frakka fyrrum.

Ættlands smán um öld svo marga
Allir keppumst við að farga.
Eið við guð o. s. frv.

Oss þar fallna fold mun hjúpa
Frjálsir munu niðjar krjúpa,
Þakkartára fóru oss færa,
Fögru lofi nöfn vor mæra;
Eið við guð vors ættlands sverjum
Einn og hver,
Þann að aldrei þrældóm framar
Þolum vér.

### Ó, kvíðvænleg hugsun[1])

Ó kvíðvænleg hugsun, sem kvelur mig æ,
Að á koddanum mjúk-svellum gefi' eg upp önd,
Og drúpi með höfuð sem bliknandi blóm,
Er ormurinn neðan frá nagar.

Eða deyi sem týran á dvínandi kveik,
Er döpur í stofunni smásloknar út;
Ó alvaldi drottinn! þeim dauða mig firr,
Þess bið eg, mér hlífðu við honum.

Nei, fyr lát mig falla sem öflg steypist eik,
Er eldingin klauf eða stormur upp sleit —
Eða farast sem bjargið, er fleygist af brún
Með drunum í afgrunns djúp ofan.

En fáist ei þetta, eg þá kýs mér hel,
Er þjóðirnar kúguðu sórust í lög,
Að hrista' af sér þrældómsins háðungar ok
Og reisa gegn harðstjórum rimmu;

Þá bruna þær móðgar í brandahríð fram
Með bálandi kinnar — og gunnfánar hátt

[1]) Kvæði þetta orti Petöfi, er hann hafði þrjá um tvítugt (1846); segir hann hér fyrir dauða sinn og það svo sannspálega, að heita má að rætzt hafi með atvikum.

A lofti sjást blakta með leifturorð björt,
Um heims þjóða' og heimsins alls frelsi.

Frá austri til vesturs þá kveður við kall,
Að kónganna hástólar skjálfi' alt í kring,
Og endurgjalds dagurinn upprunninn sé, —
Þá lát þú, ó drottinn! mig deyja.

Í hergangi þeim verði hels auðið mér,
Og heitt streymi blóð mitt á vígvallar slóð
Og rauðliti grasið, — en siguróp sé
Það hljóð, sem eg hinzt frá mér sendi.

Og deyi það óheyrt og hverfi í hlym
Og hávaða af skothríð og lúðranna glaum,
Og fákar í reiðliðsins ferðhraðri þröng
Með hófum mitt hrer traðki sundur.

Á dreyrfoldu liggi svo dreifð út mín bein
Unz dagur sá kemur, að leg hljótið þér
Í einni gröf allir, sem út gáfuð líf
Til helfórnar heilögu frelsi.

## Í september-lok.

Enn garðablóm neðra hér gróa í dalnum,
Við gluggann enn skrúðgræn er öspin vor há;
En, skoðaðu! veturinn skjótt fer að nálgast,
Á skógvöxnu hæðunum fest hefir snjá.
Svo ber eg enn sumarsins síðgeisla í hjarta,
Þar sáðkornið frumunga þróast og grær,
En haustlega á koll mínum hárið samt gránar
Og hermir, að veturinn færi sig nær.

Að fold hníga blómin og burt streymir lífið,
Kom, brúður mín elskaða! og sezt mér á kné.
Í dag ertu mínu svo mjúkt vöfð í fangi,
Á morgun við gröf, ef eg vopnbitinn hné.
Ó, seg mér, þá eg er á undan þér dáinn,
Munt angráð þú gráta við kuml yfir mér,

Eða með ástmálum aðra við bundin,
Það afsverja nafnið, sem fyr gaf eg þér.

Ef ekkjunnar blæju svo af þér þú leggur,
Þá ásttregans fánu, sem þér heyrir til,
Þá sannlega kem eg úr svarthýsi grafar
Og sæki' hana til þín um miðnætur bil.
Eg sæki' hana til þess mín tárin að þerra,
Er titt græt eg þín vegna í dánarheims rann;
Eg þek henni um sárið míns þreyjandi hjarta,
Sem þ a r, þ á og e n n þér til eilífðar ann.

## L j ó s.

Myrkt er í grafnáms-göngum,
En göng þau birta' upp lampar;
Myrk er nótt, en í myrkri
Þó mergðin stjarna glampar.
Myrkt er í brjósti mannsins,
En munur sá, að lampi ei né stjarna
Og engin týra eða minsti neisti
þar birtu ber.

Ó, skynsemd örm!
Sem þóttast frekt og þykist vera ljósker,
Sért' ljósker þú, þá lýs mér eitt fet áfram!
Eitt fet að eins, því ei af þér ég krefst,
Að ósýnið þú opnir fyrir mér
Og líkblæjuna látir sjá í gegnum,
Þá blæjuna, sem byrgir þ a ð fyrir handan.

Eg eigi spyr, hvað einhverntíma eg v e r ð i,
Eg spyr um þettað eitt: Hvað e r eg?
Og hversvegna er eg?
Skóp eðlið manninn fyrir sjálfan sig,
Fyrst hann er reyndar heimur fyrir sig?
Hvað, eða skóp það hann sem rýrðar hlekk
Í þeirri risakeðju, er kallast mannkyn?
Og ber oss aðeins o s s að lifa' að munum,
En væta ei brár með veröld þeirri', er grætur?

Hve margir voru, sem að sugu blóðið,
Til eigingagns,
Úr annara brjóstum.
Og enga refsing fengu fyrir það?
Hve margir vóru, er blóð sitt létu buna,
Í annara þörf,
Úr eigin brjóstum,
Og enga umbun fengu fyrir það?
En hvað skal fást um slíkt, því þessir menn,
Til gagns fyr aðra er gáfu sig að fórn,
Þeir unnu ei það í eiginlauna skyni,
En vildu að eins velferð náungans.
Nú, vanst þeim þetta: velferð náungans?
Það er sú spurn, sem þyngst er allra spurna,
Ei hin er aðspyr: »Verá eða' ekki vera«?
Hvort þessir menn þá gerðu nokkurt gagn
Þeim heimi, sem þeir fórnfærðu sig fyrir?
Og mun þá eitt sinn upprenna sá dagur,
Sem vondum gerir geig,
En góðir þreyja,
Hinn fyrirheitni farsældanna dagur?
Og eftir alt: hvað er þá farsæld?
Því farsældina sinn í hverju sér,
Og vísast þó, að enginn sæi' ið sanna.
Já, ef til vill er okkar svonefnd farsæld
Og millíónir allra okkar óska
Ei nema glýjugeislar nýrrar sólar,
Sem mókir ennþá undir sjónarhringnum,
Unz loks hún rís í víðum veldisljóma.
Ó, væri svo!
Og væri hér í mannheim þessum markmið,
Sem á að stefna ómaks væri vert;
Æ, en ef þessu er alveg gagnstætt farið!
Ef erum vér sem blóm, er bráðgjör spretta,
En bliknuð jafnskjótt út af detta;
Ef fljótt sem rís og fellur bylgja hver,
Vart fæddir deyjum vér;

1) To be or not to be — that is the question (**Shakespeares Hamlet A III. Sc. 1.**)

Ef erum vér sem steinn, sem hent er hátt,
En hæðum úr til jarðar fellur brátt —
Sem göngumaður, háa er hlíð upp klífur
Og loksins kominn upp að efstu brún
Í skyndi aftur skriðnar o'ní dalinn;
Og ef að svo um alla eilífð gengi,
Upp og svo niður, upp og aftur ofan;
Ó, skelfing, skelfing! hver, sem aldrei hefir
Íhugað það og aldrei til þess fundið,
Hann veit ei enn, hvað frost er, frost, sem nístir
Ísdingul-kalt og upp á brjóst vort læðist
Sem naður skríði — naður, sem að frystir
Oss blóð í æðum, unz hann úr sér réttir
Í einum rykk — sig reyrir oss um kverkar
Og bítur oss til bana.

### Vitskerti maðurinn.

Hvað eruð þið að fipa fyrir mér?
Burt, burt og allir farið fjandans til,
Því nú ég hefi stórvægt starf með höndum;
Eg er að ríða eldglóandi keyri
Úr sólargeislum og eg ætla mér
Að hýða þessa veröld sundur og saman,
Og þá skal skrækur verða og vein,
En eg skal hlægja,
Sem hlóuð þið, þá hljóðað' eg og skrækti,
Ha, ha, ha!

Því svona er lífið: hrinur, vein og hlátur,
Unz sjálfur dauðinn seinast grípur fram í
Og segir: pst!
Eg hafði líka látizt; það stóð svo á því,
Að eitri í drykkjarvatn mitt höfðu helt
Þeir sömu menn, er sötrað höfðu vín mitt.
Hvað gerðu þessi þrælbein næst?
Með djöfulslægð, svo dulið fengju morðið,
Þeir o'ná lík mitt hentu sér með hrinum
Og tíðum ekka, og tár mér feldu' á andlit;
Þá hefði eg feginn hlaupið upp

Og rifið þá og rispað alla í framan;
Þó gerði eg það ei, því eg var að hugsa:
Eigið þið nef og nasir, svo þið finnið
Dauninn af mér, þá drafna ég í sundur,
Og kafnið allir. Ha, ha, ha!

Hvar grófu þeir mig þá? . . . í Afríku,
Og það varð mér til láns,
Því hýenan mig krafsaði' aftur upp
Sem ætis valið hnoss.
Sú bestía mér gerði þetta góðverk,
Það eina, sem eg orðið hefi fyrir,
Og hún fékk launin: hana eg sveik í staðinn,
Því hjarta mínu' eg henni varp í klóna,
En það var beiskt; hún át það og hún drapst.
Ha, ha, ha!

Og því ei það? því sá er manna siður;
Þeir launa þannig það, sem vel er gert.
Nú, maðurinn, hvað er hann yfirleitt?
Rót undir blómjurt, sem er sagt að beri
Með sætleiks ilm í himninum sitt blómdjásn;
Því ljúga þeir; hann blóm mun vera' að vísu,
En niðri' er rótin, — neðst í vítis pælu.
Einn vísdómsmaður mig á þessu fræddi,
Svo heimskur þó, að hann úr sulti drapst.
Gat hann ei stolið, gat hann ekki rænt?
Ha, ha, ha!

En, æ, því hlæ eg látlaust líkt sem galinn?
Eg miklu fremur ætti að gráta, gráta,
Hvað veröld þessi er fantaleg og fárspilt.
Nú þetta grætur góður guð þar efra
Úr sínum skýja-augum oft og tíðum
Og iðrast eftir að hann hana skóp.
En til hvers er það, til hvers renna tárin,
Þó guðs tár séu?
Þau hrynja niður hér í jarðarskarnið,
Og mennirnir — þeir traðka á tárum guðs,
Og annað ei, hvað ætli verði úr þeim?
Ei nema þrekkur. Ha, ha, ha!

Ó veiztu, himinn, himinn! hvað þú ert?
Uppgjafa dáti, gamall, af þér genginn,
Með sólu fyrir minnismynt á brjósti.
En tötraflík þín tætluð eru skýin.
Já, svona fer það fyrir þessum dátum;
Þeir fá fyrir langa trúa' og trygga þjónkun
Málm-agnarskömm og gamla garmaflík,
Það eru launin, ha, ha, ha!

Og vitið þið það, menn!
Á ykkar máli hvernig hljóðar það,
Sem lynghænan á kornmörk úti kveður,
Þá lætur hún sitt »k v a, k v a, k v a, k v a« gjalla?
Það segir þetta: »Sneiðið sæ hjá konum!«
Því konan alt af togar til sín manninn,
Sem sjórinn vatnsföll seiðir í sitt skaut.
Hvers vegna? til að svelgja hann í sig
Ó, það veit trú mín, frítt er kvenna kynið,
Fagurt og frítt, en háskalegt um leið,
Baneitruð veig í bikar skíra-gulls.
Eg hef þig teygað, ást!
Einn lítill dropi af þér, já, að eins einn,
Er sætumeiri en sjávarhaf, sem væri
Ei annað hót en einskær hunangslögur,
En skæð'ri líka er lítill dropi af þér
En hafsjór heill af einusaman eitri.
Hvort sáuð þið ei hafið,
Þá fellibylur arði þar sinn akur
Og sáði út sínu hvíta heljar-korni?
Og hafið þið þann svarta sáðkarl litið,
Hinn bráða fellibyl,
Með sinni leiftur-logsigð skera kornið?
Ha, ha, ha!

Þá aldinið er alþroskað á trénu,
Þá fellur það;
Og þú eins, jörð! tókst þroskann út til fulls
Og átt að falla.
Til morgundagsins mun eg bíða samt,

En þó ei heldur þá mun hringja stundin
Þíns dauða og dóms.
Svo gríðarholu eg gref mér í þig miðja
Og púðri niðrí hana hleð
Og sprengi þig, ó jörð! með braki og brestum
Hátt, hátt í loft upp, ha, ha, ha!

*Stgr. Th.*



# Ritdòmar.

---

**JÓN TRAUSTI: Leysing, kaupstaðarsaga frá síðustu áratugum 19. aldar. 466 bls. í átta blaða broti. Útg. Arinbj. Sveinbjarnarson og Þorst. Gíslason.**

Aðalpersóna sögunnar er Þorgeir Ólafsson, verzlunarstjóri dönsku fastaverzlunarinnar í Vogabúðum. Hann er af bændum kominn, gáfaður, fríður og þrekmikill, en ráðríkur og metnaðargjarn. Hann kemur ungur í þjónustu verzlunarinnar, vinnur sér hylli yfirmanna sinna, og verður verzlunarstjóri 25 ára gamall. Hann ásetur sér að færa verzlunarástandið í nýtt og betra horf. Alstaðar og ávalt prédikar hann skuldlaus skifti, vöruvöndun og efnalegt sjálfstæði. Framan af æfinni gengur alt vel. Hann er formaður og fyrirmynd í hvívetna. Verzlunin blómgast, velmegun og framtakssemi vaxa í héraðinu og kauptúninu. En þegar álíður æfina breytist hagur Þorgeirs. Lausakaupmaður, borgarar og kaupfélag rísa upp í Vogabúðum, og keppa við »fastaverzlunina«, sem um ómunatíð hafði verið þar einvöld. Við það missir hún skiftavini, og þrífst ver. Það er meira en metnaður Þorgeirs og trúmenska við verzlunina getur þolað. Hann reynir af öllum mætti að yfirbuga þessa keppinauta, en verður undir í baráttunni. Konuna missir hann. Einu dótturina sem hann á, og ann mjög, rekur hann frá sér, af því hún vill ekki láta hann ráða giftingu sinni. Vinir hans snúa við honum bakinu. Ýmsir menn, sem hann hafði margt vel gert, og komið fótum undir, gerast forgöngumenn kaupfélagsins og öflugustu mótstöðumenn hans. Verzlunarstjórnin danska heftir framkvæmdir hans með ýmsum hætti, svo hann verður að berjast vopnlítill og einn. Skuldir manna aukast á ný. Vöruvöndun hugsa menn lítið um. Viðleitni Þorgeirs að bæta verzlunarástandið ber engan árangur lengur. Vonir hans verða sér allar til skammar. Hann missir traustið á mönnunum. Þeir skilja hann ekki, meta ekki viðleitni hans, og tortryggja hann. Hann fer að hata þá, og hugsar nú að

eins um að koma fram hefndum, brjótast til valda, kúga þá til auðsveipni. Nótt eftir nótt reikar hann aleinn og andvaka um hýbýli sín, og hugsar ráð sitt. Og það er svarta myrkur í sál hans. Eina skíman eru hrævareldar haturs og hefnigirni, sem leiftra yfir leiðum svikinna vona og sérvitra hugsjóna. Eina slíka nótt skygnist lítilsigldur meinleysingi, »Einar í Bælinu«, inn í sál hans. Þorgeir skipar honum hvorki né biður hann að kveikja í vöruhúsi kaupfélagsins. En hann stingur eldspýtnastokk í vasa hans, og talar um kaupfélagið á ýmsa vegu. En Einar fer út og kveikir í húsinu. Hann er tekinn fastur. Þorgeir reynir að koma honum undan — til Noregs, en á leiðinni til skips hrapar hann fyrir björg, og finst þar dauður næsta dag. Þorgeir finnur fullvel að hann er valdur að húsbrunanum, og dauða Einars, og grunur fellur á hann. Allir forðast hann og fyrirlíta, en enginn þorir að tala hreinlega við hann um orsökina. Sálarkvalir hans aukast og margfaldast. Hann verður taugaveiklaður, sér ofsjónir, og verður að drekka sig í svefn á kvöldin. En mennina hatar hann og fyrirlítur enn meira en áður. Honum finst tortrygni þeirra, brigðmælgi og skilningsleysi hafa gert sig að glæpamanni. Skuldunautum sýnir hann hörku, og hygst nú að hefna sín, og ná aftur völdum. En þá legst hann á banasæng. Nú skilur hann loksins, að þessir menn, sem hann hatar og kennir ógæfu sína, eru ekki að ástæðulausu slíkir sem þeir eru. Hann hefir heimtað of mikið af þeim, vænzt meira af þeim en sanngjarnt var. Börnin voru vanrækt. Þess vegna var fullorðna fólkið lítilsiglt. Hver sem bæta vill þjóðina, á að byrja á börnunum. Og á banasænginni ánafnar Þorgeir hreppi sínum 20,000 krónur, með þeim fyrirmælum, að vöxtunum skuli varið til menningar börnum öryrkja í hreppnum, 4 í senn. Það voru manngjöld fyrir »Einar í Bælinu«. Börnin hans 4 áttu að njóta fyrsta styrksins, svo þau yrðu honum meiri og betri. Síðan áttu börn annara lítilmagna að njóta hans, svo komandi kynslóðir yrðu þeim hverfandi betri.

Þorgeir er persóna, sem vert er að gefa gaum.

Og höf. tekst oft vel, en stundum ágætlega að sýna lesaranum inn í sál hans. Hann er mannvinur, og vill gera alt hið bezta fyrir lýðinn. En hann vill fá að gera góðverkin sjálfur — helst einn — og með sínum hætti. Þegar frúrnar eru að safna gjöfum handa »Margrétu í Bælinu«, og senda Þorgeiri gjafalistann, glottir hann hæðilega að þessum lítilsigldu tilraunum frúnna til að fá aðra til að gera gott undir sínu nafni. Hann skrifar 2 kr.

— jafnmikið og hver frúnna — á gjafalistann, að eins til að storka þeim. En þegar listinn er farinn, gengur hann rakleitt heim í »Bælið«, færir Margrétu 100 kr., og biður hana að koma fyrst til sín, þegar henni liggi á hjálp. Hann vill endurbæta verzlunina. En þegar aðrir fara að gangast fyrir því, snýst hann á móti þeim, en gætir þess ekki, að hann verður um leið á móti sjálfum sér, og tefur framgang þeirra hugsjóna, sem hann hefir elskað og barizt fyrir.

Ráðríkið verður honum og hugsjónum hans að fótakefli. Hann skortir nákvæmni og skilning á manneðlinu til að geta orðið mönnunum að fullum notum. Hann er of þröngsýnn og eigingjarn til þess. Gjafir hans og góðverk eru »Andvarahringir« og »Tyrfingar«. Hann færir »Margrétu í Bælinu« tvo 50 krónu seðla og bannar henni að geta þess, hvaðan þeir séu. Það var hættulegt fyrir hana, þó höf. geti ekki um að sakað hafi. Það hlaut að vekja grun, þegar hún, bláfátæk ekkjan, þurfti að skifta svo stórum seðlum. Þorgeir ann dóttur sinni hugástum. En kvennrétt hennar skilur hann ekki. Hann krefst þess, að hún fórni ást sinni á altari eigingirni hans, og giftist í þarfir verzlunarinnar. Í verzlunarmálinu tekur Þorgeir ekki tillit til þess, að aðrir, þó miður séu að manni en hann, hafa líka vilja og þrek til að starfa að endurbótum kjara sinna. Og þær velgerðir, sem menn eru neyddir til að þiggja, verða sjaldan viðurkendar í fyrsta lið. Loks þegar hann liggur banaleguna, og veit sér enga von þess framar að geta gert góðverk sín með ofbeldi, þá lætur hann sér nægja að leggja fé sitt og hugsjónir í hendur annara. Um sólarlagið meðan »þungbrýnu, ferlegu bólstrajötnarnir leysast úr álögum og verða að svífandi geislamyndum, yfir rekkjustokk kvöldsólarinnar« . . . . en . . . »þursahamina rekur brennandi burtu, fyrir naustvindunum«, þá losna hugsjónir hans úr álögum eigingirninnar, þursaham einræðis hans rekur brennandi burtu, og hann finnur, að »það eina sem veitir lífinu gildi, er sátt og samúðargleði að stóru starfi, fyrir velgengni annara«. Þetta er kjarni sögunnar. Og hann er hvorki óþroskaður né ormétinn. Það borgar sig vel að brjóta utan af honum skelina.

Jón Trausti kann frá mörgu að segja. Hann er glöggskygnum sálarlíf manna, og lýsir því vanalega vel. En atburðum og náttúrunni miður. Brunanóttina er t. d. sálarstríði Þorgeirs og Einars vel lýst. En bruninn sjálfur fer í handaskolum, og er svipltill. Kaflinn »Viðsjár« er skýr og skemtilega saminn. Einkum

er ágæt lýsingin á Bælinu, þegar Þorgeir kemur þangað, og á góðgjörðakvilla frúnna í Vogabúðakaupstað.

Sannar og skýrar eru og frásagnirnar um kaupfélagsfundinn, og Hvanndalarétt og margt fleira. En fegurstur þykir mér kaflinn »Sólsetur«. Þó virðist mér smekklaust að tala þar um Rembrandt. Hann kemur eins og »fjandinn úr sauðarlegg«, og á það þó ekki skilið. Ósmekkleg orðtæki eru og hér og þar t. d. líf í tuskunum«, skegg »rakað á Kristjáns II. vísu« o. s. frv. Stundum hættir höf. til að tala fyrirlitlega um persónur sínar, t. d. kerlingar sem reka »sótugan hausinn« út úr moldarkofum o. s. frv. Höf. skortir auðsjáanlega tíma til að vera stuttorður. Honum er gjarnt að þreyta lesarann með smákvæmni og málalengingum. Leysingin er víða svo mikil, að orðaskriðurnar grafa aðalatriðin undir aukaatriðum. Lesaranum verða notin torfengin og nautnin blönduð. Oft er lesarinn búinn að hugsa hugsanirnar og lifa atburðina, löngu áður en höf. kemst að. Frásögn hans verður því endurtekning. Þess vegna er hún þreytandi. Þegar hugsanaganginn og viðburðarásina skortir skrið, þá gengur það ekki »eins og í sögu«. Því aðalkostur góðrar sögu er einmitt sá, að hún leyfir lesaranum að lifa og skilja á mínútum og sekúndum, það sem lífið sjálft þarf ár og vikur til að veita. Ekki hefði saga þessi skaðast á því, þó færra hefði verið talað um hugsanir Einars í Bælinu, þó sjaldnar hefði verið tekið fram, að bókhaldarinn, sem ekkert vann sér til ágætis annað en »hósta« og »bölva«, væri »úr sögunni« (hefði ólíklega þurft að minna lesarann svo oft á að gleyma honum), þó hárkollan og skeggið á Sigurði hreppstjóra, og hlykkjótta æðin á gagnauga Þorgeirs hefðu sjaldnar komið til mála o. fl., o. fl. Nokkrar prentvillur eru í bókinni. Samt sem áður er hún eiguleg. Sagan væri ágæt, ef hún væri svo sem helmingi styttri.

*Karl Finnbogason.*

* * *

**AFMÆLISDAGAR: Safnað hefir mag. Guðm. Finnbogason. Rvík, útgefandi Sig. Kristjánsson.**

Bækur líkar þessari hafa lengi tíðkast í öðrum löndum. Þær eru einkum ætlaðar unglingum og eiga að sameina það tvent, að vera þeim til gagns og gamans. Um leið og í þær er safnað eiginhandarnöfnum manna, eða fæðingadagur og ár eru rituð þar til minnis, er ætlast til þess, að bókin veki eftirtekt unglinga á fögr-

um ljóðum. Það mátti því búast við að að því kæmi, að slík bók yrði gefin út á íslenzku. En ekki gildir það einu, hver velur. Mag. Guðm. Finnbogason var manna færastur til að leysa það verk af hendi. Valið ber það ljóslega með sér, að það er ekki gert af handahófi. Víðast mun það haft fyrir augum, að erindi þau, sem unglingarnir læra, verði þeim umhugsunarefni á þroskaaldri og leiði síðar athygli þeirra að ýmsum gátum lífsins. Með það fyrir augum er það með ráði gert, að setja ýmsar harla ólíkar lífsskoðanir, sem koma fram í stökum skáldanna, hverja við hliðina á annari. Um það má lengi þrátta, hversu mikið gagn sé að þessu, en í mínum augum gerir það bókina mun eigulegri, heldur en ef þar stæði eintómt léttmeti. Og sá sem kann öll þau erindi sem í bók þessari standa, eða meiri hluta þeirra, hefir margt í huga á einverustundum sínum. En sumstaðar finst mér þó safnandinn seilast helzti langt út í forneskju, t d. þar sem hann tekur torskilin erindi úr Hávamálum, Darraðarljóðum eða öðrum fornkvæðum, eða erindi, þótt yngri séu, sem ekki geta talist unglinga meðfæri (t. d. sumt eftir B. Th.) Eg er því hræddur um, að mörgum finnist allmörg erindi í bókinni full-strembin. Þó hefir þessi bók orðið fyrir ómaklegum og óréttmætum dómum í sumum blöðum, sem sjálfsagt er að mótmæla — en líka verið oflofuð. Meðalhófið er vandratað. Hún e r engin ljóðasýnisbók og engin »bókmenta viðbót« heldur. Myndasafn (album) er ekki bók, þótt það líkist bók í laginu. Þessi bók er ekki annað en myndabók mismunandi lífsskoðana, fornra og nýrra, í ljóðum, — a l l r a íslenzkra.. Kostir hennar eru í því fólgnir hvernig »myndirnar« eru valdar og hvernig þeim er raðað.

Ytri frágangur er ágætur og bókin seld í fallegu bandi. Framan á bindinu er gullin mynd af íslenzku langspili og er nafn bókarinnar dregið á strengina. Hún er snotur tækifærisgjöf handa unglingum. *G. M.*

* * *

**HERRMANN, PAUL: Island in vergangenheit und gegenwart. Reiseerinnerungen. I—II. Leipzig. Engelmann. 1907.**

Sumarið 1904 fengu Íslendingar góðan gest, er vísindamaðurinn dr. Paul Herrmann, prófessor, frá Torgau á Þískalandi, kom hingað. Hann var áður kunnur firir ágæt rit um þíska og norræna goðafræði og um Saxa hinn danska, og kom nú hingað til

að kinnast landi voru og þjóð. Hann ferðaðist um sumarið, first upp í Borgarfjörð frá Reikjavík og síðan sunnan og austan um land frá Reikjavík til Akureirar, landveg alla leið. Nú í sumar hefur hann gefið út bók þá um ferð sína, er að framan er nefnd.

Það er auðsjeð á þessari bók, að höf. hennar er ekki einn af þessum vanalegu útlendu ferðamönnum, sem koma hingað allra snöggvast og hripa svo upp, þegar þeir koma heim, ferðasögu, fulla af vitleisum, misskilningi og sleggjudómum um land og þjóð. Bókin er eflaust hin besta, fjölhæfasta, efnisríkasta og áreiðanlegasta ferðabók, sem út hefur komið um Ísland nú um langan aldur. Hver lína í henni ber vott um, að höf. er manna fróðastur um alt, sem snertir land vort, bæði um náttúru þess og sögu og bókmentir, og að hann hefur haft opið auga firir öllu því sem firir hann bar og eigi síst fyrir því sem einkennilegt er í lindiseinkunn Íslendinga. Hann stóð og betur að vígi enn hver annar óvalinn ferðamaður að því leiti, sem hann skildi vel íslenska tungu, þegar hann kom til landsins, og var ekki lengi að komast upp á að skilja og tala mælt mál. Við þetta komst hann í miklu nánari kinni við þjóðina enn alment gerist um ferðamenn. Og honum fór sem svo mörgum öðrum, er krufið hafa þjóð vora til mergjar: hann varð hugfanginn af henni.

Bókin er meira enn ferðasaga, hún er í rauu rjettri mjög svo fjölhæf og greinileg lísing Íslands. Hún er í tveim pörtum, og er firri partur »um land og líð«, enn síðari parturinn ferðasaga, enn þó eru kaflar úr ferðasögunni einnig fljettaðir inn í firri partinn. Í firri partinum lísir höf. nákvæmlega náttúru landsins, gefur stutt ifirlit ifir sögu þess, lísir læknaskipun, fræðslumálum, heimilisiðnaði, listum, atvinnuvegum, híbílaháttum o. s. frv. Í þessum köflum hefur hann stuðst við hin bestu heimildarrit, sem til eru, einkum rit Þorvalds Thóroddsens og D. Bruun's, og er furða, hve fróður hann er í því efni; honum hefur jafnvel ekki skotist ifir greinir í íslenskum blöðum og tímaritum. Sjerstaklega er fróðlegur sá kafli, sem lísir viðskiftum Íslendinga og Þjóðverja að fornu og níju. I síðari kaflanum segir höf. frá ferð sinni um Suðurland og Austurland norður til Akureyrar. Má þar sjerstaklega benda á hina ágætu lísing hans á Skaftafellssíslu, sem fáir ferðamenn hafa áður farið um eða líst.

Öll bókin er ljós vottur þess, að það var ekki ofmælt, sem filgdarmaður höf. Ögmundur Sigurðsson, sagði við hann að skilnaði að hann væri sannfærður um, að vjer Íslendingar ættum í honum

góðan vin, sem kinni að meta kosti þjóðarinnar og umbera bresti hennar. Hve hrifinn höf. er af Íslandi, sjest á því, sem honum dettur í hug, þegar hann er heim kominn og situr við skrifborð sitt í Torgau: »Þá vaknar hjá mjer,« segir hann, »öflug endurminning um hinn fegursta tíma æfi minnar; hæsta stig hennar er ferð mín til hinnar fjarlægu eijar, sem gnæfir með hvítan jökulhjálm við sólroðin skí, lauguð af brimöldum úthafsins.« Ef nokkuð má að bókinni finna, þá er það helst það, að ást höf. á landi og þjóð gerir hann stundum of bjartsínan.

Einstaka villur koma firir, enn þær eru furðu fáar. T. a. m. er það ekki rjett, sem höf. segir (I, 136. bls.), að kvennhúfan íslenska með skúfnum eigi Sigurði málara Guðmundssini tilveru sína að þakka. Nafnið *Álsei* (á einni af Vestmannaeijum) getur ekki þítt »seilinsel« (I 37 [1]) heldur er að líkindum *Álfsei* hið rétta nafn eijarinnar (Þorv. Thoroddsen, Lísing Íslands, Kh. 1907, 121. bls.). Að vísu er hún nefnd »*Álsey*« í Isl. Fornbrjefasafni III 190. bls., enn það er ekki að marka, því að handritið, sem prentað er eftir, er ekki eldra enn frá birjun 17. aldar. Dr. Valtýr Guðmundsson var ekki foringi andstæðinga í mótspirnu þeirra móti símalagningunni 1905 (I 292. bls.). Ekki mun það heldur rjett, sem segir (I 162. bls.), að Náttúrugripasafninu hafi verið minni rækt sínd, síðan Benedikt Gröndal gekk úr stjórn þess. Ónákvæmt er það og, að lögrétta og dómar hafi á þjóðveldistímanum haft sæti á lögbergi (I 305. bls.), enda er sá misgáningur leiðrjettur síðar á sömu bls. Þorgrímur læknir (Þórðarson) er nefndur Þórður (II 148. bls.). Íslensk mannanöfn og örnefni eru víðast hvar rétt prentuð, og sömuleiðis önnur íslensk orð, og eigum vjer því ekki að venjast í útlendum bókum. Þó hef jeg rekist á nokkrar prentvillur, og eru þessar hinar helstu: I 149 [27] les *Echinococcus, sullur*; 263 [24] l. *heitir*; 268 [18] l. *skil*; 279 [2] l. *þrælastraumur*; II 6 [31] l. *Óþerrishola*; 74 [30] l. *falljökull*; 137 [21] l. *að sækja að*; 158 [2] og 174 [36] l. *Suður-*; 164 [26] l. *þvottáreyjar.*

Bókin er ágætlega úr garði gerð að öllum frágangi og prídd fögrum myndum; eru sumar þeirra teknar eftir eldri ritum, einkum D. Bruun's, enn sumar nýjar. *B. M. Ó.*

* * *

**OVE PAULSEN: Studies on the Biologi of Calanus finmarchicus, in the Waters round Iceland (Meddelelser fra Kommissionen for Havundersögelser, Serie: Plankton Bind I, Nr. 4, 1906) Köbenhavn 1906.**

Tegund sú, er hér ræðir um, Calanus finmarchicus, er mjög algeng í særeki í norðurhluta Atlantshafs og hefir fundist kringum Ísland. Í apríl—maí er þó tillölulega lítið af henni við Norðurland, en á sumrin og haustin er hún alltíð alstaðar við strendur landsins. Ritgjörðin er um lífssögu tegundar þessarar; hún er 20 blaðsíður, og brotið mjög stórt; aftan við eru þrjú myndablöð, er sýna útbreiðslu tegundarinnar hér við land á ýmsum árstíðum. *H. J.*

# Erlend tíðindi.

---

Friðarþingið í Haag. Það hófst í miðjum júnímán. og stóð þann ársfjórðung allan, er hér segir frá. Þar komu fulltrúar frá 46 ríkjum alls víðs vegar um heim. — Fyrra þingið, 1899 (18. maí—29. júlí), sóttu ekki nema 26 ríki alls.

Forseti þessa þings var kjörinn Nelidoff fursti frá Rússlandi, enda hafði Rússakeisari stefnt til þess, eins og hins fyrra.

Þing þetta hafði mörg mál til meðferðar, en varð fremur lítið ágengt.

Stjórn Breta, þeir Campbell-Bannerman og hans félagar, höfðu ráðgert í vetur að halda fram á þessu þingi samtökum meðal stórveldanna um að stöðva frekari vígbúnað, ef ekki draga úr honum heldur; en gugnaði á því, er það mál fekk lítinn byr, einkum hjá Vilhjálmi keisara og ráðgjöfum hans, og sendi liðléttinga á fundinn, eins og henni stæði nokkuru veginn á sama um hann; ella hafði verið búist við, að Campbell-Bannerman mundi taka sjálfur að sér að reka þar erindi Breta, og mundi það þá hafa verið gert af allmiklum skörungskap.

Tvær mikilsverðar ráðsályktanir hefir þó friðarþing þetta gert.

Önnur er um alþjóðlegan skiptökudóm, eða milliríkjadómstól, er skera skuli úr, hvort hertekin skip annarra ríkja en þeirra, er við eigast í hernaði, hafi verið rétt tæk. Slíkir dómar hafa háðir verið í því landi, er skipið tók og að þess ríkis ráðstöfun, er það hervirki vann; en sú tilhögun er eigi líkleg til óhlutdrægni. Þetta mun því vera mikil réttarbót, og var hún samþykt nær í einu hljóði (21. sept.) eða með 37 : 1 atkv.; 6 voru fjarverandi.

Hin réttarbótin er sú, að alþjóða-gerðadómur sá, er stofnsettur var þar í Haag á fyrra friðarþinginu, á nú að verða fastadómstóll, en eigi kvaddur til setu þá fyrst í hvert sinn, er ágreiningur er upp kominn ríkja í milli.

borginni í Marokkó, og lýsir þar yfir því, að ekki hlýði annað en að það ríki, Marokkó, sé öllum öðrum ríkjum óháð með öllu og landeignarhelgi soldáns órjúfanleg.

Þetta var upphaf allmikillar viðsjár með hér nefndum stórveldum þremur og fleirum þó, og hefir átt eigi hvað minstan þátt í því, að vígbúnaðarsamkepnin þeirra í milli hefir fremur magnast hin síðustu missiri en að henni hafi slotað. Þar er Játvarður Bretakonungur talinn hafa átt manna mestan og beztan þátt í að afstýra vandræðum; hann kvað hafa gengið í milli og stilt til samlyndis með miklum viturleik og stakri lipurð. Tíð ferðalög hans til viðtals við aðra þjóðhöfðingja álfunnar hafa því verið meira en kynnisfarir. Marokkómálið er mælt að hafi verið sílifandi ófriðarkveikja öll hin síðustu missiri, þótt slétt hafi verið ofan á að kalla.

Íhlutun Vilhjálms keisara leiddi til stórveldastefnunnar í Algeciras (syðst á Spáni) á áliðnum vetri 1906, og var þar sáttmáli ger um sumarmál það vor, er ónýtti hinn frá 8. apríl 1904 og gerði öllum þjóðum jafnfrjáls viðskifti við Marokkóríki og afskifti af því, svo sem keisari vildi vera láta, en varð þó honum í móti skapi að því leyti, að Frakkar skipuðu nokkurs konar öndvegi um tilhlutun um þarlend mál, ásamt Spánverjum. Það kom svo sárt við metnað keisara, að hélt við fullum fjandskap við Frakka, og þykir nú vera vitað til fulls, að sagt hefði hann sundur friði við þá um sumarið eftir, ef Þjóðverjar hefðu haft fullbúinn stórskotaútbúnað sinn þann hinn nýja, er þá höfðu þeir í smíðum. Játvarður konungur á og að hafa haft í hótunum annars vegar um að sitja ekki hjá, heldur veita Frökkum. Það var og gert til að mýkja skap Vilhjálms keisara, að láta utanríkisráðgjafa Frakka, Delcassé, fara frá völdum, eftir 7—8 ára skörulega stjórn og viturlega; hann hafði oftar en einu sinni skákað á þá Vilhjálm og kanzlara hans.

Þessum sömu glæðum lá við að lifnaði í af nýju í sumar.

Franskt gróðafélag hafði komist að samningum við soldán í Marokkó um hafnargerð í Casa Blanca, einni helztu hafnarborginni í Marokkó, vestur við Atlanzhaf, með 30,000 íbúa, þar af 5—6000 Gyðingum, og 1000 Norðurálfumönnum. Frakkar lögðu járnbrautarstúf út í grjótnámu skamt frá borginni, til að greiða fyrir hafnargerðinni. Það leizt þeim illa á, þarlendum höfðingjum; þeir höfðu og heyrt þess getið, að járnbrautir væri í höndum Norðurálfumanna sá köngullóarvefur, er þeir ánetjuðu í utanálfu lönd og ríki. Þeir kunna og illa öllu samningamakki soldáns við »hina frönsku

hunda«, þótti hann vera þeim of leiðitamur og gjarn á nýjungar þeirra í atvinnurekstri og samgöngufærum. Hann heitir Abdul-Aziz og tók ríki eftir föður sinn 1894. Þetta mikluðu þeir í huga sér, og þar kom, að sveit þarlendra manna réðst á eimreiðina frönsku og verkamenn þeirra í grjótnámunni hjá Casa Blanca, lömdu eimreiðarekilinn til bana með lurkum og 8 verkamenn þeirra í grjótnámunni, og léku líkin mjög hraklega, að þarlendum sið. Þetta var síðustu daganna af júlímánuði.

Frakkar þóttust þurfa að hefna þessa illvirkis, sendu herskip til Casa Blanca og skutu mikið af borginni í rústir, en drápu fjölda manna. Þeim þótti hafa farið þar ófimlega, voru helzti liðfáir er þeir lögðu að borginni, og stældu þá upp þann veg, er fyrir voru. Þær skærur stóðu eftir það fram á haust, og áttu ýmsir högg í annars garð. Landsbúum þótti soldán duga illa, og áttu nokkrir þarlendir höfðingjar fund með sér, lýstu Abdul-Aziz frá völdum, en tóku til keisara yfir sig bróður hans Muley Hafid. Sá hefir þó lítið fylgi fengið, og horfir fyrir það enn óvænlegar á fyrir Marokkóbúum. En Þjóðverjar láta lítt yfir aðförum Frakka, og er nú svo komið, að allmjög mun vera vandgætt samlyndis þeirra í milli um þetta mál, hvort sem fleiri stórveldin verða við það riðin eða ekki, um það er lýkur.

Bandalög stórveldanna. Það fylgir hinni miklu herbúnaðaröld, er nú gengur yfir heiminn, að ekkert hinna miklu stórvelda heimsins þykist mega um frjálst höfuð strjúka, nema ef það eru Bandaríkin í N.-Ameríku. Bretaveldi var lengi sjálfu sér nóg og einhlítt, eða þóttist vera. En nú er eins og því sé brugðið, — eins og það treysti ekki eins örugt á mátt sinn og megin eins og það gerði til skamms tíma. Fullkomið bandalag hefir það að vísu eigi gert nema við eitt ríki, Japan. En það leitar sem áfjáðast vináttumála við hin stórveldin. Það byrjaði á því við Frakkland, og fekk þau vináttumál fastmælum bundin fyrir nokkrum missirum. Þá hóf það viðlíka málaleitun við Ítalíu, sem er enn í órjúfanlegu bandalagi við Þýzkaland og Austurríki. Nú er það tekið til að bræða sig saman við Rússland. Þar komst á sáttmáli í milli í sumar um að sneiða hjá árekstri í löndum þeim, er í milli liggja ríkja þeirra í Austurálfu, svo sem eru aðallega Persaland og Afganistan, með því að ánafna sér hvort um sig til ráðasviðs það sem næst liggur hvors landamærum, og láti hitt það hlutlaust með öllu.

Samtök þau öll virðast helzt lúta að því, að einangra Þýzkaland, sem ekki er trútt um að grunað sé um græsku hvaðanæfa.

Alt um það mun Vilhjálmur keisari vera hvergi hræddur hjörs í þrá. Hann hefir þá við sig bundna traustum bandalagsviðjum, Austurríkiskeisara og Ítalíukonug. Auk þess hafa menn fyrir satt, að vel sé þeim til vina undir niðri, honum og Rússakeisara, þótt ekkert sé bandalag þeirra í milli og fátt talað um vináttumál. Þeir eru báðir mjög svo alvaldir í sínu ríki, ólíkt því sem um hina þjóðhöfðingjana, og eiga að því leyti betur saman. Þeir hittust í sumar snöggvast að máli, og þykjast menn vita, að það hafi ekki verið erindislaust. Það var í Eystrasalti, úti fyrir Swinemünde. Rússakeisari hyggur sér þó af tvennu til óhættara á sjó en landi við morðtólum sinna mörgu óvina eða stjórnarfars þess, er hann heldur uppi. En það eru þegnar sjálfs hans, er hann vilja sífelt feigan.

Það mun hafa verið til þess gert, að eyða öllum grun um samdrátt með keisurunum, er þeir hittust tíu dögum síðar í Wilhelmshöhe (14. ágúst), frændurnir, Játvarður konungur og Vilhjálmur keisari, og mæltust fagurlega við. En það þykir oft vera sannmæli um þjóðhöfðingja, að þá mæli þeir fagurt, er flátt hyggja. Hefir löngum verið kalt með þeim frændum eigi síður en þegnum þeirra.

Mannvinir og friðarfrömuðir með þjóðunum báðum stunda þó af alefli að eyða með þeim öllum róg og fáþykkju. Blaðamenn frá báðum löndum hafa skifst á kynnisvistum síðustu vorin tvö hvort eftir annað í stórhópum og átt að fagna mestu virktaviðtökum, enskir blaðamenn þetta ár á Þýzkalandi, þar á meðal af keisara, ríkiskanzlara og öðru stórmenni. Þeir vita það sem er, friðarvinir, að blöð eiga hverju valdi meiri þátt í að glæða bróðurþel manna í meðal og þjóða, eða þá að hnekkja því og eyða.

Frá Bretum. Þeir hafa bætt nokkuð fyrir misgjörðir sínar við Búa með því að veita þeim stjórnfrelsi vonum fyr, báðum Búaríkjunum, Transvaal í fyrra, en Oraníuríki á þessu ári.

Þeir búa enn sem fyr öllu stirðara við sín gömlu hjáríki, Írland og Indland.

Hún þykir hafa komið öllu óliðlegar fram við Íra, hin nýja, frjálslynda stjórn á Englandi, heldur en fyrirrennarar þeirra, svo íhaldssamir sem þeir þóttu vera. Umboðsstjórnarbót sú, er hún gerði þeim kost á í vor sem leið, þótti þeim vera það kák, að

írskur þjóðfundur í Dýflinn vildi ekki við henni líta, og sá stjórnin þann vænstan, að taka frumvarpið aftur.

Nú er upp risinn á Írlandi nýr þjóðfrelsisflokkur, er nefnist Sinn Féin (frb. sjinn feu, og merkir: Vér sjálfir.) Frumstofn hans er hin yngri kynslóð írskra þjóðfrelsisvina. Þeim leiðist þófið á þinginu í Lundúnum og vænta þar engrar viðunanlegrar áheyrnar. Þeir kalla sambandslögin frá 1800 markleysu eina, með því að þau ríði bág við uppgjafar-sáttmálann frá 1783, þar sem því er lýst yfir af Breta hálfu, að tilkall Íra til að vera eigi öðrum lögum háðir en þeim, er konungur setji með alþingi Íra, skuli vera upp frá því þeirra órjúfanlegur réttur og óvéfengdur um aldur og æfi. Þann sáttmála rufu Bretar, er þeir álimuðu Írland Englandi árið 1800 og lögðu landið undir þingið í Lundúnum. Vér sjálfir segja, að þar af leiði hugsanrétt, að írskir þingmenn eigi að ganga af þingi í Lundúnum, og vilja láta þá gerast frumstofn að nýju lögþingi í Dýflinni, er við skuli auka fulltrúum frá sýslunefndum og öðrum stofnunum í landinu. Þetta þing ætlast þeir til að geri ályktanir, er innlend stjórnarvöld framkvæmi, ráðstafi fjárframlögum, er héraðsstjórnir mega fyrirskipa að lögum o. s. frv.

Það er mælt, að flokkur þessi eða félagsskapur eflist óðum og muni mestu ráða í landinu, áður langt um líður, ef ekki væri kennilýðurinn kaþólski öðrum þræði og takmarkalaus fáfræði alþýðu og fákunnandi, er kirkjan elur og varðveitir, með því að það er hennar hjálparhella. Það er og önnur stoðin undir örbirgð landsbúa, en gömul harðstjórn og ágengni Breta hin. Um 40,000 manna flýja land ár hvert, til Vesturheims aðallega. Fyrir þá ódæma-blóðtöku gengur þjóðin saman, og annað hitt, að viðkoman er minni en víðast gerist, með því að kennilýðurinn heldur alþýðu undir ótrúlegu fargi. Landsbúar voru fyrir rúmum 60 árum $8^1/_4$ miljón, en eru nú eða voru, er síðast var talið (1901), ekki nema $4^1/_2$ miljón. Fyrsta skarðið og mesta hjó voða-hallæri 1846, vegna kartöflu-uppskerubrests; en þá tóku við vesturfarirnar.

Þeir eru farnir nú að sjá það, Írar, að sjálfstæðisbaráttan muni lítið tjóa, ef eigi er unnið jöfnum höndum að efnalegri viðreisu þjóðarinnar, svo að hún hætti að flýja land af því, að hún geti eigi bjargast heima fyrir. Enda er nú komin þar upp allmikil hreyfing í þá átt, að reyna að efnast, svo sem með samvinnufélagsskap ýmislegum, einkum samlagsrjómabúum, búnaðarfélögum, pöntunarfélögum m. fl.

Ekki er Bretum betur borin sagan af viðskiftum þeirra við samþegna þeirra á Indlandi, Hindúa og aðrar þarlendar þjóðir, fullar 300 miljónir samtals. Þar, á Indlandi, hefir brytt á talsverðum óeirðum í sumar, og hafa þá ýmsir kunnugir orðið til að gera grein fyrir, hvernig á því stendur.

Þeir hafa gert þar margt til framfara, Bretar, sem kallað: lagt járnbrautir, ritsíma og talsíma um landið þvert og endilangt, svo geysistórt sem það er, nærri 30 sinnum stærra en England, húsað höfuðbæi forkunnarvel, gert þar háreistar hallir, stofnað skóla, stóra og smáa, banka, sjúkrahús, grafið skipakvíar o. s. frv. En það er alt gert til að græða sjálfir, hagnýta sér sjálfum hinar miklu landsnytjar sem mest og bezt og raka saman fé, sem þeim hefir og hepnast mætavel, hafa með sér aurasafn sitt heim til Englands og lifa þar í vellystingum praktuglega, en láta landið sjálft, Indland, einskis góðs af njóta, láta þarlendan lýð búa við hina mestu örbirgð og ánauð, ofþyngja honum með gegndarlausum sköttum og álögum, fullum 500 miljónum kr. um árið, segja nýjustu skýrslur.

Um 40 miljónir landsbúa segja þeir, sem grynst taka í árinni, að svelti heilu eða hálfu hungri árið um kring, — fá aldrei saðning sína og eiga aldrei málungi matar. Tveir þriðjungar landsbúa fá í góðum árum aldrei nema eina máltíð á dag og hún er hnefakorn af hrísgrjónum eða hirsi með salti. Kjöt vita þeir varla hvað er. Mjólk bragða þeir aldrei né kaffi eða te eða vín. Allur viðbúnaður er eftir því, svo sem fatnaður, híbýli m. fl. Hreysin þeirra þættu engri skepnu boðleg hér í álfu. Þó vinna þeir árið um kring liðlangan sólarganginn, — fyrir nokkrum sinnum munnfylli sína af hrísgrjónum og salt við. Þetta er í góðu árunum. Í hörðum árum fá þeir ekki það. Þá hrynja þeir niður unnvörpum. Síðustu tíu árin hafa 10 miljónir þarlendra manna dáið úr hungri og 5 miljónir úr drepsóttum, aðallega svarta-dauða. Þó flyzt þar korn úr landi jafnvel í slæmum árum. Féleysið meinar þeim að kaupa það. Indlandsráðgjafinn, sem nú er, John Morley, sagðist í þingræðu í vor um fjárlögin ekki skilja neitt í því, að Norðurálfumenn tækju þá sótt, svarta-dauða, sjaldan sem aldrei, en þarlendan lýð feldi hún sem hráviði. Aðrir vita það og skilja, að því veldur harðréttið. Horaðir líkamir og blóðlausir hafa minni viðnámsþrótt en feitir og vel haldnir.

En aldrei er svo mikill manndauði á Indlandi af hallæri og drepsótt, að jarl Bretakonungs þar fái ekki sínar ákveðnu 300,000 kr.

í laun um árið og aðrir embættismenn þar í landi alls sínar 180 milj. kr., að meðtöldum yfirmönnum í hernum. En að öllum embættum þar í landi hafa Englendingar sama sem einkarétt. Það ber varla við, að nokkur þarlendur maður fái þar nokkurt embætti. Þetta er beljan látin mjólka og þaðan af betur, þótt nær sé dauða en lífi af hungri. Þaðan af betur: t. d. þegar krýningarhátíðin var haldin þar eystra samtímis því er Játvarður konungur var krýndur heima í Lundúnum; eða þegar þurfti að fagna prinzinum af Wales, konungsefni Breta, og konu hans, drotningarefninu; eða emírnum í Afganistan var boðið heim o s. frv.

Járnbrautir hyggju flestir vera ómetanlegt framfaratæki hvar sem er og hvernig sem til hagar. »En svo fer fjarri því, að landið ábatist á þeim«, segir sá sem þetta er mest eftir haft, sem hér er ritað, indverskur hagfræðingur, er heitir Sardarsinji R. Rana, »að þær leggja 846 milj. kr. (1175 milj. franka) byrði á indverska gjaldþegna. Þessi óðlátu og gagnskreiðu samgöngutól láta heldur mikið til sín taka.; þau þyrla enskum varningi út á yztu landshorn og gera sitt til þess að ónýta alla vinnu og alla samkepni þarlendra verkmanna. — — Hugsið yður, að hver járnbraut er sama sem afarsterk og stórvirk sogæð, sem stingur opinu niður í allar tekjulindir landsins, og munuð þér þá fara nærri um, hver blessun muni fylgja því hálofaða og dásamaða flutningsbrautaneti«.

Fjölment þjóðvinafélag hefir til verið á Indlandi 22 ár undanfarin og látið töluvert til sín taka. Það á þing með sér á hverju ári til að ræða um landsins gagn og nauðsynjar, andlegar og líkamlegar, og bera saman ráð sín um viðreisn landsins. Leiðtogarnir eru þarlendir menn, er hafa mentast á Englandi. En mörgum framfaramönnum, þeim er hátt hugsa, þykir félag þetta skorta atorku og röggsemi. Það geri ekki annað en að rita bænarskrár og bera fram munnlegar málaleitanir við yfirdrotnara landsins hina ensku. Enda er nú upp risinn nýr flokkur í landi, er vill ekki heyra minna í mál tekið en swaraj, er þeir nefna svo og kvað merkja fullkomið sjálfstæði. Þeir vita, að trúmenska við England er sama sem svikræði við Indland. Sagan sýnir það, segja þeir, að sá er ginntur, sem gengst fyrir góðum orðum og fögrum loforðum Breta. Þeir leika sér að því að láta þau óefnd, og það með blygðunarlausri óskammfeilni. Þjóðvinir þeir ganga ekki í neina embættisvist né aðra þjónustumensku hjá Bretum. Þeir fyrirlíta nafnbætur þær og krossa, er harðstjórarnir hafa á boðstólum, og eigi síður kjötkatla þá, er þeir eiga fyrir að ráða.

Það er þessari hinni nýju hreyfingu að þakka, hve vel hefir áunnist síðustu árin tvö að sneiða alveg hjá kaupum á enskum varningi og að hafa sem minst mök við Breta. Bretar taka þar á móti mjög líkt því, sem siður er á Rússlandi og hefir lengi verið, en þeir fara um afarhörðum orðum þ a r, Bretar. Þeir hafa bælt niður málfrelsi og fundafrelsi víða um land, þar sem hin nýja hreyfing lætur mest til sín taka. Dæmi eru og þess, að máldjarfir alþýðuleiðtogar hafa verið gerðir útlagir án dóms og laga. En rússnesk kúgunarráð geta af sér rússnesk fjörbrot.

F r a k k l a n d. Stjórnin í París átti framan af sumri ilt fang og örðugt við allmikið og víðtækt óánægjuuppþot í vínyrkjuhéruðunum á sunnanverðu Frakklandi út af megnum ársbresti þar vegna sívaxandi verðhruns á landsnytjum þeirra, vínum, en það stafaði aftur af samkepni annarra vínlanda og megnri fölsun á þeim varningi innanlands, einkum tilbúnum vínum frá verksmiðjuborgum norðan til í landinu. Lýðurinn hópaðist saman svo tugum þúsunda skifti og jafnvel hundruðum að hlýða á snjallar tölur hinna og þessara lýðskjalara, er þóttust hafa hugsað upp ráð til að komast úr verstu kröggunum, en það var að öllum jafnaði að skora á stjórn og þing að skerast í leik og bjarga landinu. En stjórnin kunni engin slík ráð, sem engin var von til.

Það var eitt ráðið til að knýja stjórnina til að hefjast handa, að hreppsnefndir og bæjarstjórnir lögðu niður umboð sitt svo hundruðum skifti, og stofnuðu þann veg til óstjórnar.

Helztur postuli þessa uppþots heitir Marcellin Albert. Hann boðaði Clemenceau yfirráðgjafi á sinn fund og fekk talið það um fyrir honum, að hann fór heldur að spekjast eftir það og óspektaröldurnar að lægja. Clemenceau tók að öðru leyti ómjúkt á óeirðunum, og hafði þar fylgi þings, þótt heyra mætti þar háværar lýðfrelsishrókaræður fyrsta kastið. Clemenceau þótti sýna þar bæði lag og óbiluga stjórnsemi.

Af viðureign Frakka við Marokkóríki hefir nokkuð sagt verið hér að framan.

R ú s s l a n d. Stórtíðindi hafa þar engin orðið í sumar. Höfðingjavígum þó haldið áfram, en með hægara móti, svo og líflátsdómum. Að öðru leyti verið að undirbúa kosning til þriðja þingsins, í stað þess, er rofið var snemma sumars og fyr hefir verið frá sagt (bls. 190—191). Það á að kjósa eftir enn nýjum kosninga-

lögum, er keisari hefir sett, og eru öll miðuð við það, að reyna að fá stjórnþjála fulltrúa og ekki mjög frjálslynda, — hvort sem það nú tekst eða ekki.

Keisari hrepti það slys seint í sumar, er hann var á skemtiför við Finnlands strendur og drotning hans með honum og börn þeirra, að skip hans hið mikla og fríða, Standart, bar upp á blindsker, og barg annað skip keisarafólki á 3 stunda fresti. Fullyrt er, að það hafi verið óviljaverk hafnsögumanns, og engin banaráð við keisara. Skipið losnaði af skerinu eftir 9 daga.

Bandaríkin í N.-Ameríku. Þeir eiga í brösum við Japana, Bandamenn, vilja amast við miklu aðstreymi þeirra til bólfestu og því fyrirmuna þeim fult jafnrétti til þjóðfélagslegra hlunninda. Það urðu nokkrar róstur í sumar í San Francisco út af því, að stjórnin þar í Kaliforníu vildi ekki leyfa japönskum börnum skólavist með börnum hvítra manna. Það þótti Japönum frekleg rangindi. Þeir finna meira til sín nú en á undan sigrinum mikla á Rússum. Keisari þeirra bar sig upp við Roosevelt forseta. En hann svaraði sem satt var, að sig brysti vald til að bjóða eða banna stjórninni í Kaliforníu að skipa fyrir um skólamál öðru vísi en henni líkaði. Hann hefir þó gert sér far um að fá gerða tilslökun, og komið þar fram bæði viturlega og skörulega, sem honum er lagið. Er ekki trútt um töluverðar viðsjár með Bandamönnum og Japönum út af fleiri þjóðmetnaðaratriðum þeirra í milli.

Dómur gekk í sumar í Chicago í fjárdráttarmáli heldur stórkostlegu á hendur Standard-olíufélaginu og höfðingja þess, John Rockefeller, og var félagið dæmt í á annað hundrað milj. króna útlát fyrir mútugjafir til járnbrautarfélaga eða ólöglegan afslátt á flutningsgjaldi því til ábata.

Roosevelt forseti vægir hvergi til við féglæfra-ofurmenni þau, er hneppa vilja landið í ánauð. Traust hans og vinsældir af alþýðu manna fara heldur vaxandi en hitt, og er búist við, að hann komist naumast hjá forsetakjöri í 3. sinn, þótt slíkt hafi aldrei við borið í sögu Bandaríkja.

Japan. Mikið orð fer af uppgangi Japana, og þykir eldri stórveldunum sumum metnaður þeirra vaxa úr hófi fram. Þeir gerðu sér lítið fyrir í sumar og veltu af stóli keisaranum í Kóreu, er þeir höfðu heitið áður sinni vernd og ásjá. Hann reyndist þeim

miður leiðitamur en þeim líkaði. Her Kóreuríkis lögðu þeir eftir það saman við sinn her og settu yfir japanska höfðingja.

Noregur. Þar voru gerðar á þingi í vor nokkrar minni háttar stjórnarskrárbreytingar. Ein var sú, að þing komi saman í janúarmánuði ár hvert í stað októbermán. nú. En helzta breytingin var sú, að konur mega kjósa fulltrúa á stórþingi (alþingi) Norðmanna, þó eigi alment, heldur þær einar, er greiða skatt sjálfar eða menn þeirra af 400 kr. (til sveita 300). Það nýmæli var samþykt með 96 atkv. gegn 25, en tillaga um almennan kosningarrétt til handa konum feld með 73 atkv. gegn 48.

Fyrnefnt efnaskilyrði fyrir kosningarrétti gerir það að verkum, að ekki fær hann nema rúmur helmingur fulltíða kvenna í landinu, eða nálægt 300,000 af um 550,000, eftir því sem nefnd í málinu á stórþinginu taldist til. Þetta kemur þann veg fram í reyndinni að fátækar fjölskyldur hafa að eins 1 atkvæði til þings, heimilisföðurins, en hinar efnaðri 2, sitt fyrir hvort hjónanna. Það er óviðfeldið misrétti.

Þetta þykir þó vera mikil framför, og talið hæpið, að fengist hefði framgengt nú, ef norskar konur hefði eigi sýnt þá rögg af sér fyrir fáum missirum, er gengið var til atkvæða um skilnaðinn við Svía, að safna þá 250,000 undirskriftum fullorðinna kvenna um land alt undir samkvæði við sjálfstæðisyfirlýsing stórþingsins frá 7. júní 1905. — Skilnaðaratkvæðatala karlþjóðarinnar var 368,000, eða 85 af hundraði allra kjósenda í landinu.

Portúgal. Þaðan spyrjast sjaldan söguleg tíðindi. En í vor gerðist það þar, sem nú er fágætt orðið í þingstjórnarlöndum, að stjórnin lét rjúfa þing og efna eigi til nýrra kosninga, heldur tók yfirráðgjafi konungs, Franco, sér alræðisvald, með hans ráði, Karls konungs, og hefir stjórnað landinu þann veg síðan. Stjórnin hafði ekki getað tjónkað við þingið á neina lund. Enginn meiri hluti fyrir neinu, hvorki með henni né móti, en nóg rifrildi. Uppþot varð nokkurt út úr þessu í svip og mikið orðaskak í blöðum, en sjatnaði brátt. Enda er landsbúum lýst svo, að þeir séu litlir alvörumenn né atorku, heldur bæði léttúðugir og makráðir.

---

Apríl 15. Hefst brezk nýlenduríkjaráðstefna í Lundúnum. Lokið 14. maí.

Maí 14. Hefst ráðstefna rússneskra byltingamanna í Lundúnum. Spænsku konungshjónunum fæðist sonur, frumgetinn (prinz af Astúríu).

13. Stórþingið norska gerir bygðamál (landsmál) að skyldunámsgrein stúdentsefna.

22. Þingrof í Lissabon. Franco yfirráðgjafi gerist alræðismaður.

24. Þing sett á Finnlandi.

28. Jóhann Albrecht, hertogi í Mecklenborg, kjörinn landsstjóri í Brúnsvík.

Júní 10. Óraníulýðlenda í S.-Afríku fær stjórnarskrá. Byrjar bifreiðarkappakstur frá Peking til Pétursborgar. Borghése prinz, ítalskur, varð hlutskarpastur; kom til Parísar 10. ágúst.

14. Stórþingið norska lögleiðir kosningarrétt kvenna

15. Friðarþing hefst í Haag.

Júlí 8. Andast Sophus Bugge, mikill norrænufræðingur, í Kristjaníu, 74 ára.

14. Loftfarið Patrie sýnir list sína á þjóðhátíð Frakka í París, hið fyrsta, er lætur vel að stjórn.

19. Keisarinn í Kóreu látinn veltast úr völdum,

22. Gufuskipin Columbía og San Pedro rekast á við Kalíforníustrendur. Columbía sökk og 69 manns druknuðu.

Ágúst 3. Rockefeller steinolíukongur dæmdur í Chicago í $29^1/_4$ milj. dollara útlát fyrir fjársvik.

Vilhjálmur og Nikulás keisarar eiga með sér stefnulag úti fyrir Swinemünde.

4. Frönsk herskip skjóta á Casa Blanca í Marokkó.

10. Hefst alþjóðafundur í Cambridge á Englandi um tungumálið esperanto (dr. Zamenhofs).

29. Brotnar brú á St. Lawrence-elfi og týnast 70 verkamenn.

Sept. 4. Andast Edvard Grieg, norskt tónskáld heimsfrægt 63 ára.

11. Skemtiskip Rússakeisara, Standart, ber upp á sker við Finnlands strendur. Keisari og fólk hans bjargast.

27. Gufuskipið Lúsitanía, enskt, lýkur ferð austur um Atlanzhaf, frá New York til Queenstown á Írlandi, á 5 sólarhringum 4 mín. og 19 sek. *B. J.*

---

# Stephan G. Stephansson.

Eftir

GUÐMUND FRIÐJÓNSSON.

---

IV.

Stephan er ekki margmált ástaskáld. Þau kvæði eru fá til á prenti eftir hann. En hann er þar með sama markinu brendur, sem annars staðar: djúpur og dulur.

Ástavísur til Íslands

sáust fyrst eftir hann og einar sér þess háttar kvæða. Svo margt var búið að yrkja um Fjallkonuna, áður en Stephan náði tökum á skáldgyðjunni, að vænta mátti þess, að honum mundi verða leit að nýjum efnum og fágætum í því landi. En fyrsta vísan í því kvæði ber þess ljósan vott, að kvæðið er engin eftirherma né uppsuða úr annara leifum:

»Minn ljóðgöngull hugur um hánorður leið
mig hrífur að ættjörðu minni,
þar vorsólin lýsir um lágnættis skeið
sem ljóshvel í útfjarða mynni.

— — — — — — —

Eg vaki um nótt er í norðrinu skín
þér náttsól á andvöku-göngum,
og ástaljóð kveð eg nú Ísland til þín,
sem óma í vormorgun-söngum,
og sendi þau titrandi að eyrum þér inn,
með árgölum vorsins, um húsgluggann þinn.

— — — — — — — — — —

Þín fornöld og sögur mér búa í barm
og bergmál frá dölum og hörgum,
þín forlög og vonir um frægðir og harm
mér fylgja á draumþingum mörgum«.

Varir skáldsins fljóta ekki mjög í gælum föðurlandselskunnar, þegar hann syngur þetta kvæði. En þó er það blindum manni bersýnilegt, að hjartað er »viðkvæmt og varmt«. Stephan flutti að vísu fót sinn og hönd frá móðurjörðinni. En hver dirfist þó að væna hann tvöfeldni, þegar hann segir:

»En svo ertu Ísland í eðli mitt fest,
að einungis gröfin oss skilur«.

Og hann endar kvæðið með þessari ósk:

»að alt sem þú, föðurland, fréttir um mig
sé frægð þinni að veg, því eg elskaði þig«.

Það sannast enn í dag fornkveðna vísan:

Röm er taug,
sú er rekka dregur
föður túna til.

Blóðböndin ósýnilegu, sem barnið er bundið móður sinni, frá getnaði til grafar — þau togna að vísu og fara stundum í bláþræði. En þau slitna aldrei til fulls. Svo er og háttað um böndin, sem tengja saman þjóðina og einstaklinginn. Þessir símar bera skeytin milli mannsins einstaka og afskekta og þjóðarinnar, sem ól hann upp. Þorri manna verður þeirra var oft og tíðum, þótt hann þegi. Meðalmaðurinn á enga rödd til í eigu sinni, sem túlkað geti tilfinningar hans fyrir öðrum sálum. En skáldið á röddina til og raddfærið, þegar það leggur sig í líma.

Annað ástakvæði Stephans er

### Mansöngur.

Þar kveður hann um unga stúlku, og kastar yfir hana

gervi vorsins og leiðir hana fram í því. Hugur hans er eigi ástríðuþrunginn né ákafur. Hann brennur ekki í skinninu né heldur sviðna fjaðrir hans. En hann skoðar ástina svo sem þann kraft, sem göfgar manninn og eykur honum vöxt og viðgang. Þar er sama vitið, sama dýpið undir yfirborðinu.

Þriðja og síðasta ástakvæði höfundarins er kvæðið

»Carly«.

Það er um þrjátíu ára gamla viðburði — stúlku sem hann hefir kynst í æsku, en skilist við á lífsleiðinni — eins og gengur og gerist. Minningar skáldsins eru hálf-grasgrónar í fyrstu, þegar hann hefur kvæðið. Því líkt er sem hann þurfi að rista ofan af þýfi og stinga upp jarðveg minninganna, áður en hann nær tökum á efninu. Fyrst yrkir hann lýsingu sveitarinnar, sem »Carly« var í. Að því búnu nær hann tökum á atburðunum og henni sjálfri ásamt sjálfum sér.

En þótt hann sé þrunginn af minningum frá sambúð þeirra í æsku, getur hann ekki látið vera að koma við hjá Ameríkumanninum og stendur þá skamma stund á olnbogaskotinu til ármanns auðs og fégirndar:

Af vestræna frelsinu sveitin bar svip,
sem sagði það blátt fram og hreint:
Við götuna heimilum, gestur minn, þér —
en gaktu þó hiklaust og beint!
því stígir þó fet inn í góðbúans garð,
þú geldur þess — við erum enn
á götur og stjórnfrelsi gjafmildust þjóð,
en guð' sé lof, — tollheimtumenn.

En hann gleymir þó ekki fegurð landsins, né náttúrunnar þar sem:

blöðurnar dumbrauðar hilti yfir jörð
sem hraunborgir, langt út um sveit,
og vorlognið blákembdi víðlendið alt
og vorsólin stafaði heit.
Á húsglugga leiftraði í lundi, sem stóð

í lyfting við rennislétt frón,
sem bænum var afdrep gegn illviðra byl
og almennings njósnandi sjón.

En væri frá gættinni garðhliði lyft
á götunni húsabæ að,
þá opnaðist garðtrjánna riddara-röð
við rakleið í glóskúfað hlað;
þar klifruðu blómvefjur upsunum að
upp anddyrið, torfæran spöl,
og þrúgnanna viðjur mót vermiátt dags
sig vöfðu að gluggum og svöl.

Og svo hafði angan frá ilmandi runn
á aldintré glóandi bent,
þar blómhvítan fjölskreytti grænlaufga grein
sem gló-mjöll úr sólskini fent.
En plómutréð langfegurst, liljunnar blæ
sem lit inn í rósanna brá,
sem frelsið og sakleysið sáttmála gert
og sett hefði blöðin þess á.

En spjöll voru mannaverksmörkin á þeim,
þess mót sást um trjástofn og blóð.
Sjálf náttúran hressir og hrífur mann dýpst,
þó hirði ekki um skorðaða röð.
Að húsbaki stóð þó enn laufskógar leif,
frá landnámstíð varin og studd.
En kynslóðir tvær höfðu gengið um garð
í gröf, áður mörkin var rudd.

— — — — — — —

En svo tóku kornekrur vorgrónar við
um vallbungu, strikaða plóg,
sem lykkjaðar tungur í langröðum upp
sig ljósgrænni maísinn hóf.
En engið var blakkast, það blæ á sig tók
af bláranðum grænsmára knapp;
hvert blað hans, er opnaði sumar og sól,
var sveimandi býflugum happ.

Eg veit þessi ljóð eru svipur hjá sjón
á sumarsins skáldmæru list
á sveit þinni og bæ, þar sem »Carly« mín kær
eg kyntist þér síðast og fyrst.
Þó bjarmar mér glegst upp við birtuna af þér
sá bærinn og þingháin sú,
ef ótafinn hugur við stundir og stað
er staddur hjá þér, eins og nú.

Og þín vegna, »Carly« mín, kvæðið er gert
og kveðið í átthagann þinn.
Þinn skósveinn, eg man það, hvern morgun eg varð
— um miðdegið leikbróðir þinn.
Hvert stríð og hver sigur, hver sætt og hver hvíld
vor sameign og kóngsríki var.
Í heimilis-orustum, uppreisn þér gegn,
eg árvakur merkið þitt bar.

Hvern aftan er logkyntur loftstrauma sjór
stóð lygnast og kófheitti svörð,
sem loft hefði brennandi sólgeislann svæft
í svartnættis fanginu á jörð:
Þú manst okkar veraldir vítt yfir sól
og víðbláins stjörnuhvel öll.
Á kné mínu saztu, unz heiðlokkað hneig
þitt höfuð við draumlanda fjöll.

---

En náttrökrið lengdist, það læddist við jörð
hin lágfleyga desember sól
og sólstöðu skuggi yfir landinu lá,
því liðið var haust undir jól.
Öll sáðlöndin urin og frostsprungin flög,
sem flóðsandar, bjarglaus og auð;
í skammdegis kald rænu skalf út' á rein
og skrjáfaði kornstöngin dauð.

Í varpanum skrælnaði ráegresis rusl
og ræflar, sem bein kringum gren,
og apaldra vorfegurð elliljót varð:
þeir urðu nú grettustu trén.

Í laufskógnum inni var nálykt og nekt
— þú norðlenzka sumar ert bezt,
því barr-trén þín eru sem goðalönd græn
á gaddauðnir vetrarins fest.

Þú stóðst út í glugganum »Carly« mín kær
unz hvarf eg, og hugðir til mín,
hins umliðna sumarsblóm aleitt, sem var
enn óbreytt með sex árin þín. —
Þann kald-lýsta haustmorgun höfðum við kvaðst,
þú hrygg, — eg með fáorðri ró
úr kveðjunnar eymslum með hangandi hönd
í handslagi síðasta dró.

Þetta er síðasti skilnaðurinn, því að þau sjást ekki framar. Skáldið veit ekki hvar er að hitta hana, því að hún er komin úr allri augsýn.

Eg spyr ei' til leiðar, neinn veg til þín veit
né velur sér betur en eg —
þitt hérað er draumland mitt, hús þitt mín spá
og hugur minn ratar þann veg.

Hún er dáin, ef til vill. Vera má að hún sé í fangelsi. Sé hún dáin, þá er þess að gæta, að það sem er ágætt, þarf ekki langra lífdaga. Til frægðar skal konung hafa, meira en til langlífis. Ef hún er í fangelsi, þá er á hitt að líta, að þangað eru þeir hneptir opt og tíðum, sem drenglyndir eru.

Og eins er mér sama, þó sjálfsmensku þræll
þú sért eins og fjöldinn og eg,
þín snild breytir hreysinu í hallir, og skart'
í heimkynni alls-nægjuleg;
því kongborin sál gerir kymann að sal,
að kastala garðshornið svalt,
þó hafin sé dyrgjan á drotningar stól
tók dáminn af kotinu alt.

Þó frú sértu göfug og skrýðist í skart,
sá skrúði þér maklega fer,

þú prýðir svo gullið, og demanta djásn
er dýrmætt í hárinu á þér — —
Í gröf þína, »Carly« mín, kveð eg um jól,
í kot þitt, í höll þína inn.
Í þrjátíu ár hef' eg ekki þér gleymt
og enn er eg riddarinn þinn«.

Holgeir gamli Drachmann hefir kvongast fjórum sinnum um dagana og skilið við konur sínar á fárra ára fresti. Hann gengur ekki með þrjátíu ára minningar. En Stephan endist þetta. Hann kveður ástmey sína með »fáorðri ró« og »hangandi hendi«, til þess að draga úr »eymslum kveðjunnar« og skilnaðarins. Hún mun ekki hafa séð honum bregða. — En nú gýs upp eldurinn undan jöklinum á kaldbak útskagans og þá kemur í ljós eldurinn, sem til var niðri fyrir og enn þá er til, þó langt sé liðið:

»Í þrjátíu ár hef' eg ekki þér gleymt,
og enn er eg riddarinn þinn«.

Auðséð er, að þessi maður er í ætt við eldfjöllin okkar, sem jökullinn sezt á. En niðri fyrir í djúpinu vakir eldurinn. Einn góðan veðurdag — eða illan, logar upp úr fjalli og jökli, þegar andi fjallsins hefir sofið út og Sesam — Sesam lýkur upp huliðsheimi.

---

V.

Stephan segir í einu kvæði sínu, sem gert er um fósturjörðina aðallega, en minst er þar á gulltöflurnar, sem finnast munu á Iðavelli, þegar Surtarlogi hefir lokið bruna sínum:

»Hver gulltafla er íslenzk endurminning«.

Svo er honum farið að minsta kosti. Hann er öllum stundum með annan fótinn heima á Íslandi — annan

